Dagnborg j kringum þa Gudhræddu/ Psalm. 34. Þeir eru stóduger og stadfast er j Guds Hlydne/ og kuña nu alldrei ad falla/ eda veita Gude Ohlydne. Þetta Gagn hafa þeir af Christi Holldgan/ so sem S. Bernhardus seiger. Qui erexit Hominem lapsum, dedit Angelo stanti ne laberetur, þad er/ Christur sa sem vpp hefur reist Manneskiuna þa sem var fallen/ hann hefur og giefed Einglónum sin stodu/ ad þr kuña nu alldrei ad falla. Oh/ huilijk stor Gafa var þad? Þeñan Einglaña Heilagleik og Hlydne/ kuñum vier vel ad vndrast/ eñ ecke kuñū vier full=komlega þar epter ad breyta hier a Jórdūñe/ Þo skulum vier gióra so mijked sin vier gietum/ og Gud giefur oss Nad til/ og læta oss langa af óllu Hiarta epter Hi merijke/ huar vier munum jafner verda Guds Einglum/ og ónguu sijdur hlyda Gude enn þeir. J þessare Meiningu eru Ord S. Augustini þar hann seiger/ ad vier bidium j Bæn þessare/ Drottenn/ lijka so sem Heilager Einglar sia þig og hafa þig so ad eingen Willa fornyrk=uar þeirra Wijsdom/ og eingen Synd hindrar þeirra Glede/ Lijka so Drottenn

 lætt=

lattu ſkie vid þijna Heilaga ſem eru a Jørdūñe/og aþ Jørdunne/ z þara ſkulu aptur j Jørdena.

2 Hugleidum þar næſt Sæler Vtvaldra/ſem eru a Himnum edur j Guds Hende/ Þeim ſtiornar Gud ecke ødru vijs enn epter ſijnum Vilia/ Þar eru Gude hlydugar/ þar loþa z dyrka Gud/þar eru hia hønum j ovmrædelegre Dyrd og Glede/ leyſtar og ꝼrelſtar ꝼra allre Verılldar Sorg og Mædu: Hier vm meigum vier leſa j Openberan Johañ. 7. og 12. Cap. Þar Aulldungarner loþa Gud/og glediaſt aþ þui ad allt er ſkied epter Guds Rade og Vilia:

3 Skodum og eirnen þau Himneſku Aſtra, ſem er Solen/Tungled/Stiørnur og Planetur/ øll eru þau Gude hlydug: Þau hallda nattwrlegum Gange/ſo ſem Gud tilſette z ſkickade j Vpphaþe. Solen ſkijn a Deigenum/ vpplyſer og vermer allar Skiepnur / og giører grein a mille Dags og Natur/ Veturs z Sumars/ epter þeim adſkilianlegum gange ſem hun heþur aþ Gude. Tungled ſkijn a Nottuñe. Planetur og Stiørnur hallda ſijnum gange. Førum nu oþan betur/ þa ſiaum vier ad

ad Jörden vill læta yrkia ſig og dyrka/ ꝫ gieꝼur aꝼ ſier allra handa Grös og Groda. Vatned heꝼur ſitt Renſl/ Vindur ſÿna Hræring/ Trien bera ſiñ Auöxt. Skynlauſar Skiepnur eru ꝫ ſo Gude hlydnar/ Tranan og Storkuren vita ſinn tÿmá/ Turtul dwꝼan og Sualan merkia nær þau ſkulu koma aptur/ enn mitt Folk (ſeiger Gud) vill ecke vita Riettinde Drottens/ Jerem. 8. Cap. Eirn Heſtur lætur ſpekia og temia ſig / og lÿted Barn þuingar hann med Beiſle og Suipu / þo hañ ſie myklu ſterkare; So eru allar Skiepnur þier hlydugar/ Himneſkur Fader/ nema vier aumar ꝼatækar Mañeſkiur/ Þu rædur vid þær allar/ eñ vid oſſ hardſuÿrada ohlydna Staꝼkalla rædur þu ecke/ huörſu mykla og omælanlega Velgiörnínga ſem vier höꝼum þeiged aꝼ þier/ og eñ nu Daglega þiggium til Lÿꝼs og Sælar/ ꝼramar eñ nöckrar adrar Skiepnur/ Vier alleina erum þier þuerbrotner meir og ꝼramar enn nöckrar adrar Skiepnur. Skam̃aſt meigu vier vor. Þa vor Heill ꝫ Sæluhialp var j vede/ þa giörde Gud vorn Vilia (eꝼ ſo ma ad kuöda/ þad haꝼe vered vor Vilie) og gaꝼ vt ſinn eingieten Son

en Son

en Son pyrer oss. Hañ giörer og daglega vorn Vilia/ þegar hañ sambliodar hans Vilia / og bænheyrer oss. Hañ heþur lofad/ Psalm. 145. ad giöra Vilia allra þr ra sem hañ ottast/ og giöra þa eilijþlega Saluholpna. Enn huad giörum vier ? Vier viliū ecke veita hönum Hlydne j þui sem oss er aþ hönum til vorrar eigen Nyt semdar og Saluhialpar Boded og Biþalad/ Vier erum eins og oblyden og jll Börn/ þa Fader og Moder biþala þeim nöckud/ þa seigia þau til Forelldrañá/ Giör ed þad sialþ/ Soddan Guds Börn viliū vier vera aller. Eñ sie nöckrer sem skarre eru/ og nöckud vilia giöra Gude til vilia þa vilia þeir ad Gud skule j gien veita þeim Epterlæte epter þeirra vilia/ og seigia. Vier heyrum Guds Ord / vier gieþū Aulmösur/ eda giörum eitthuad gott þad oss lyst epter Guds Vilia / þui viliū vier ad hañ skule j ödru lijda/ þo vier giörum vorn eigen Vilia/ epter Holldsins Aeggian/ sem eru Synder og Glæper og allskyns Ranglæte: Slijk Hlydne og soddan Guds Pionusta er spottleg/ og Gude til Smadungar/ ad bidia þad Guds Vilie skule verda/ eñ þo viliū vier haþa vorn eigen Vilia. Þetta er nu Almeñelegast j Heimenum

menum/fapn vel hia þeim sem gudlegast er þickiast vera: Þeir giöra alyka so sem Aiax/ j Troiu Mañā Sögu/ Þar er skrifad/ ad hans Gydia Minerua huöria hñ dyrkade/ hafe Bedid hñ ad drepa ecke Vlissem/ þa gaf Aiax þad suar/ O Minerua/ j ödru skal eg giarna vera þier hlyden/ eñ j þessu vil eg hafa miñ eigen Vilia: So giöra eñ nu marger/ þeir sem lætast vera christner/ Þegar Gud lætur aminna [...]a og Bidia/ j sijnu Orde/ ad þeir skule giöra fyrer hñs skulld/ suerïa ecke nie Blota/ drygia ecke Synder og Glæpe/ giöra ecke oriett ödrum/ vera ecke agiarner nie ranglater/ fremia ecke Saurlijfe/ eda Hor doma/ og adrar daudlegar Synder/ þa giefa þeir eins Andsuar j Hiartanu sem Aiax gaf: Sumer þora so ad tala/ med Muñenum. Gud ma giöra vid mig þad hñ vill/ jeg giöre margt fyrer hans skulld hañ vmlijdur þo eg nu giöre miñ Vilia. Añar hyfar so/ Gud er Myskuñsamur/ vid hañ er Best ad eiga/ þo eg giöre miñ Vilia j þessu eda ödru. O neij/ Vier skulum ecke so tala nie hyfa. Su Hlydne sm vier eigum Gude ad veita/ hun kallast Copulatiua Obedientia, hun hanger samā an eins og Hlecker j Feste/ Þuiad sa Gud

sem

sem þier hefur boded þad eina / hann hefur og so skipad þier þad annad / hñ vill ad þu skuler vera sier hlyden / so vel j einu sem ödru. S: Jacob seiger so / 2: Cap: Ef nöckur helldur allt Lögmaaled / þ synd gar a mote einu Bodorde / hañ verdur sek ur j þeim öllum / Þuiad sa same Gud sem þier hefr boded ad heyra Guds Ord og ad elska þatækan Naunga / hañ hefur og sagt / ad hann vilie sialfur dæma Frillulijfis meñ og Hórkalla. Nu ef ein huör villde seigia so / Huör kañ ad veita Gude slijka Hlydne? Þad være gott ef vær giætum giört þad? Andsuar / Giör dn slijkt sem Gud giefur þier Nád til / þ bid Gud optlega og af Hiarta vm þa Nád / vert ecke Hræsnare / so þu sæker sia lfan þig j þui / ad hlyda Gude j sumum greinum / enn ecke j sumum / huar med þu dregur sialfan þig a Tælar.

## Fimta Grein / eda Spurning.

Huernen vier eigum ad jdka þessa Bæn / og lesa hana / z bidia riettelega?

1 Fyrst skiedur þad bid jnnra j hiartanu og Skilningenum / þegar vier lærum vel

bel Guds Ord/og höfum aftundan a þui ad vita Guds Vilia. Þuiad huörnen kun um vier ad giöra Guds Vilia/ef ad vier vitum han ecke? Þar fyrer er öllum Læ refedrum og Forelldrum skylldugt/ad vn deruijsa og kiena Vngdomenum/ einkum Guds Vilia/ huörs Suma og Innehalld saled er j Guds tiulaga Bodordum/ og öd rum Höfudgreinum Christelegs Barna Lærdoms/ og læta Vngdomen ecke hafa sinn eigen Vilia. En Gud ma næda/huör nen þad geingur til hia flestum/ þar vm er sionsögur rijkare.

2 J voru daglegu Bænaakalle til Gu ds/þa skulum vier læta og medkiena vor, Vankunnde/ j þui ad vita Guds Vilja/ og þar med bidia Gud vm Vplysing Hei lags Anda/so ad vier mættum reyna/hu ör og huilijkur ad sie Guds godur/þeck ur og full komlegur Guds Vilie/ Rom. 12. Cap: Vier eigum og so/ad bidia hier/ ad Gud take fra oss Hardwd vors Hiar ta/sem avallt stendur j mote Gude og ha ns Vilia/og læta oss angra þad/ad vier höfum ecke giört Guds Vilia/sem ad vor Skyllda bydur / Og bidia med David/ Psal. 51. Ad Gud villde skapa eitt hre int Hiarta med oss/ so ad vier giætum

vered

vered hönum hlyduger. Vier medkieñum hier/ad Gud er eiñ Herra/ so vel yfer Jörduñe sem yfer Himnum/ þui Bidium vier ad hñs Vilie verde/ so vel hier sem þar. Marger hafa þa heimſka Meining/ ad Gud mune alleina huga vm þad sem er a Himnum/ enn ecke vm þad huad hier lijd ur og framfer a Jördune/ Enn þetta er ei þañen. Þar fyrer medkieñum vier hier/ ad Drotten lijtur af Himnum/ ┼ sier alla Mannanna sonu/ Ja/hann sier vr sijnu Hæsæte alla þa sem Bwa a Jördunne/ Psalm: 33:

3 J öllu voru Athæfe og Framferde eigum vier ad huga vm þessa Bæn/ ganga varlega og forsialega/ og astunda af öllum Mætte/ad vier vijsvitande og viliande/eda med forsettu Rade ecke ert giörum j mote Guds Vilia/ Ad vier j Velgeingneñe lifum ecke epter Holldsins Vilia/huörs Astundan alldrei er öñur/eñ ad hafa goda Daga/ og Sialfræde til alls þess sem þad girner og jllt er/ og Gude er a mote.

4 J Motgangenum og vnder Krossenum/ þa er nöckud vandt ad lesa þessa Bæn riettelega. Vier Bidium þa oftsiñis og offkynsamlega vm þad sem offer ſkad sam

ſamlegt/ Eñ allt ſaman lagfæreſt þad ⁊
leidriettiſt j þeſſare Bæn/ þegar vier Bid-
ium ſo ſem Herran Chriſtur bad j Graſga
rdenum/ſeigiande/ Fader / Verde ecke miñ
helldur þinn Vilie:
5 A Daudans Stundu og Tijma ſkul-
um vier þacka Gude/ ad hann giörer ſinn
Vilia vid oſſ /og lætur oſſ vm ſijder ko-
ma þangad ſem Guds Vilie ſkiedur æ ⁊
alla Tijma/Ja ad vijſu/þar ſem vier ſial
fer kunnum fullkomlega ad giöra; allan
Guds Vilia. A medan vier lifum j þeſſ-
um Heime/þa kueliunſt vier( jeg tala vm
þa Gudhræddu)og vorar Sæler eru hr-
ygguar/ lijka ſem ſkiede Loth/ þa hann
var hia þeim Ogudlegu Sodomitum/ ⁊
vard daglega ad heyra og ſia vppa þeir-
ra Gudlaſtaner og onatturlegar Synder.
Viſſulega piñaſt mörg Gudz Börn þeñan
Dag/ ſem med grætande Tærum anduar
pa til Guds/ og villdu feigen vera j bur-
tu/ vr þeſſu auma og ſyndſamlega Ver-
alldar Lijfe/Og Gud bænheyrer þa med
Tijdeñe/ſo ad þeir ſmatijnaſt j burt/med
þeſſum lijkamlega Dauda. Gud hialpe
oſs ſem epter lifum/og giefe oſs ſæluga
heimfarar Stund. Oſs ætte ad leidaſt
þeſſe Heimur/j Hvöriũm vier heyrum ⁊

ſpyrium ecke nema Synder og Glæpe/og þad ſem jllt er ⁊ Gude til Stygdar: Sialldan heyrum vier þad gott er/og Gude þægelegt/og hans Vilia giedþellt. Huörſu opt ma ſa ſem er godur og Gudhrædдur gremia ſig og græta/ Allṽ̃ka ſo ſem eiñ trwr og hlyden Þegn ſitur og járna leinge j Selſkap hia þeim ſiñ eru ohlydug er/og ſig vppſetia j mote hans Herra og Konge/helldur leitar hann vid/ad komaſt j burtu þad þyrſt hann gietur/ Ja/ lỹka ſem einn godur Sonur/ hañ heþur önguа Lyſt ad vera hia þeim ſem baktala hans kiæra Födur/So ættum vier ⁊ ecke ad haþa Lyſt/ ad vera j þeſſare vöndre Veröllдu/ſem avallt jlla breyter vid Gud/vorn Herra ⁊ Födur/ſo framt ſem vier vilium vera þad vier erũ neþnder/þad er/Truer Þegnar Guds/ ⁊ hans hlyden Börn.

Oh Himerijke/Himerijke/Til þijn langar oſſ/Þui meigum vier ecke vpplíuga Himenen/ ſagde hin ſæla Monica/ S. Auguſtini Moder/ þa hun hugſade vm Himneſka Glede. Eñ vier vilium bidia/ aþ Hiarta/Kom Herra Jeſu/Kom ⁊ du el ecke leinge / ſo ad vier mættum komaſt

til þyn/ og eylijflega med Sÿnu og Hei-
ama hia þier ad vera / Amen.

# Fimte Sermon/ eda Predikun.

## Vm Fiordu Bæn.

## Giefz osz j Dag vort dagle-gt Braud/

J þessare Predikun vilum vier m̃z Guds Hialp/ vtskyra þa fiordu Bæn j Fader vor/ hvor ad stendur j midiu/ a medal þessara VII. Bæna. Þuiad Christur hefur so sem girdt hana vm kring/ med þrennur Bænum a badar Sijdur/ so sem med þremur Murveggium / so ad hun skule ecke ganga vpp yfer Kitningena. Vier verdum ad jata og medkienna/ ad vier erum fatæker og flioter til ad Bidia vm þessa stundlega Hlute/ og hofum alla Tijma ofmykla Astundan þar a/ En j hinu ødru sem ahrærer Guds Dyrd + vora Saluhialp/ þar erum vier seiner/ later + treger/ þar vier ættum þo m̃z riettu/ ad Bidia helldur vm Himneska hlute en Jardneska og vm Sælarennar Naudsyniar/ helldur

 en

ein Lijkamans. Þar fyrer hefur Herran Christur allar Naudsyniar vorrar Saaluhialþar sett saman j VI: Bæner / Enn allar Lijkamlegar Naudsyniar innefaled j þessa Bæn / og þad allt saman Bunded j eitt Ord BRAVD.

Þriar merkelegar Greiner skulum vier hugleida / Huar fyrer Herran Christur hefur innsett þessa Bæn j Fader vor.

1 Hin fyrsta er þesse / Ad vier skulum jata og medkiena / ad stundleger goodir Hluter koma ecke af Slumpu lucku / eda oforuarandis / og ecke helldur þaum vier þa vegna vorra Atburda / eda Fyrersionar / Kunnattu eda Kiænsku (so sem margur meinar) helldur koma þeir af Guds Blessan / og eru hans Lan og Gafa.

2 Þar næst a þesse Bæn ad vera oss eitt ofallt allt Testimonium + Vitnisburdur / ad Gud vilie veita sine Barnkære Christne hier j Heime Atvinnu / Hws og Heimele / og allt annad þad hun þarf med til lijkamlegs Uppheldis.

3 J þridia mata vill Gud / ad vor Tru til hns / skule jdka sig j þessare Bæn vm stundlega goda Hlute / Og ad vier skulum þar med vppvekiast til Packargiörd ar / fyrer daglegt Braud / og allt annad gott

giort sem Gud veiter oss + giefr dagliga.

Fiorar Spurningar heyra til Vtleggingu þassarar Bænar / vm daglegt Braud.

I Huad er daglegt Braud?

II Af huøriu / eda med huøriu mote þaum vier vort daglegt Braud?

III Huønar þaū vier daglegt Braud?

IIII Huørnen skulum vier riettelega neyta vors Daglegs Braudes?

## Fyrsta Grein / eda Spurning.

### Huad kallast eda huad er daglegt Braud?

Braud kallast j Hebresku Maale / allt þad sem Meñ hafa sier til Matar / Syo an þar epter a merker Braud j Skrifltenne allt þad sem Madr þarf ad hafa sier til Vpphelldis. Lijka so sem Madurenn er skapadur med Sælu og Lijkama / so þarf hann sierdeilis vid tueggia hluta Sælunne + Lijkamanum til Vpphelldis: Sælarenar Braud er Jesus Christur / sem sedur og nærer vorar Sæler med sijnu Orde med Heilögum Anda / og Sacramentön-

 um=

um. Hañ er þad Sælareñar Braud/ um hvǫrt S. Pall talar/ 1. Cor. 10. Cap:. Vorer Fedur neyttu aller einnrar andlegrar Fædu/ og drucku aller af einum andlegum Steine/ sit þm fylgde/ hvǫr Steiñ ed var Christur. Kieñefedur og Predikarar eru Guds Matsveinar og Brytar sem þessa Fædu eiga framñ ad leggia fyrer Folked. Eñ þar eru ecke marger sem girn ast þessa Fædu. Menn girnast ad fylla Magañ Nott og Dag/ og verda nalega alldrei fullmetter/ Eñ Sælena suellta þr og lata hana hungra til Dauda.

Eñ j þessare Bæn bidium vier fierdeil is og einkum um Lijkamlegt Braud/ þad er/ Um allt þ sem þesse jardneskur Kropp pur þarf ad hafa sier til Atuinnu. Hier skalltu standa vid/ ⁊ fara ecke leingra afram fyrst/ Helldur hura um/ ad þegar þu nefner Braud/ þa hefur þad Ord mikid mijked jnne ad hallda. Þu bidur hier um Mat og Dryck/ Hws ⁊ Heimele/ Kost og Klæde/ Heilsu og Heilbrigde/ Þu bid ur um hagstæda og gooda Vedrattu/ a ǫllum Aarsins Tijmum/ og ad Gud vilie giefa Gras og Groda a Jǫrdena/ og ad þad allt meige vel notkast Mǫñum ⁊ Fienade til Atuiñu/ Þu bidur um goodan ar gang

gang til Sioar og Lands / Þu bidur hier vm gooda Eigen konu / hlyden og good Börn / dygt Þionustufolk / truhasta Vine / gooda Nagranna / Þu Bidur og þyrer For elldrum / Fostrum og Formyndörum Vng domsins / Þu Bidur og þyrer Vngdomens um ad hann meige vppalast j Guds Otta / + verda ad goodum duglegum Mönnum / Þu Bídur þyrer Bændum og Bwendum / + þeirra Bwskaparlage / ad allt meige j öll um ættum vel þramm þara + gagnast. Og mz þui ad ei er gott / ad Almwgen sie Ag alans / og huör meige liþa + læta sem hann vill / þa Bidur þu og so vm gooda + pro= ma Yperualldz menn / sem leita ad Almw gans Gagne og Nytsemd: Þu Bidur vm Frid og Samþycke / og ad Gud vilie aþ venda Strijde og Styriölld / Hungre og Hallære / Drepsott og Dyrre tijd / + öllum ödrum Land Plægum og Skadsemdum allre Ovedrættu / Stormum og Storþiu kum / og öllu ödru sem Mönnum og Fiena de kann ad verda til skada og Fordiörþun= ar / Vm þetta og allt annad þad vier þur þum til þessa Lijþs Vpphelldis þa Bidium vier j þessare Bæn / þa vier nefnum dag= legt BRAVD.

Enn tuent er þad sem vier skulum bi er

er vandlega og vel athuga. Þar öll vor
Lijfs Næring ⁊ Atvinña kallast so einfalld
lega / ecke nema BRAVD / þa verdum
vier þar med aminter / ad læta oss lijka ⁊
nægia / hvad hellst Gud giefur oss til Fæ
du og Atvinnu / vera ecke Matvander / so
sem þeir giöra ed alldrei læta sier lijka þ
fyrer hende er / og so sem Israels Syner
giördu / þa Gud gaf þm Manña / þa sög-
du þeir / Oss velger vid þessare liettre Fæ
du / Numeri 21. Cap. Adam allra vor
Fader lifde j 930. ær / æt ecke Kiöt nie
Fisk nie Flesk so sem vier / hellдur alleina
Eple og Perur og añan Jardar Avöxt /
og hañ vard vel mettur ⁊ liet sier nægia.
So eins ættum vier ad giöra / ⁊ læta oss
anægia med þad Gud giefur / hvört þad
er meira eda miña / Þviad betra er / ad
hafa hier Mola og Matarleifar med
Lazaro / og sitia sijdan til Bords mz A-
braham / eñ ad hafa hier Kræsingar og
gooda Daga med rijka Mañe og þeim
heimska Nabal / og lijda Hungur ad eilij
fu: Madurenn lifer ecke alleinasta vid Ma
tnn / Þviad være þad so / þa dæu þeir Rij
ku ecke sem nægd hafa Matar og Vista.
Nu skiedur þad opt / ad Fatæker þrijf-
ast betur af Liettmete eñ Fullrijker af Kr-
æsinn

ꝛſingum. Vier leſum vm Daniel Spaman/ ad hann hafdeſt betur vid og vard fríjdare og friálſlegre ad ſia/ af liettre Fædſlu/ enn aller adrer hans Jafningiar ſem átu af Kongſins Mat og drucku af þui Víjne ſem hañ ſialfur drack af. Vier erum af Molldu og Jördu/ + förum apt ur j Jördena/ þar fyrer ſyndga þeir þung lega ſem eru Matuander/ og vandlæter vm þad hvad þeir ſkulu hafa fyrer þeñ an Madkaſeck og Molldar auka: Og vi er höfum noglegt Dæme/ ad þeir ſem ſo hafa vered vandlæter/ þeir hafa vm ſijd er orded fegner ad jeta Sk: og Skobætur og hafa daed af Hungre.

2 Þar næſt kallaſt þad VORT Braud. Þetta Ord VORT miñer oſſ a Gudz Giæſku og Millde/ ſo og lijka a vora ſkylldu. Braudid er med riettu ecke vort/ helldur heyrer þad Gude til/ þuiad vier höfum ecke nöckurn hlut ſem oſſ ſialfum til heyrer nema Syndena/ Ei er helldur Gud oſſ ſkylldugur vm nöckud/ ef hñ vill alljta vora Forþienan. Samt er hañ ſo goodur og Giæſkurijkur/ ad hann kallar ſitt Braud VORT Braud/ og þad hñ a kallar hann vort. Vier ſkulum og hyza vm vora Skylldu/ þa vier leſum þetta

 Ord

Ord VORE/ ad læra oss nægia vort eig-
ed Braud sem Gud hefur oss giefed/ og
taka ecke Braudid fra ödrum/ vtarma
þa ecke/ hafa ecke af þeim þeirra Braud
Biörg og Lijfs Næring/ lifa ecke vid þr
ra Erfide og Sueita. Helldur hyra vm
þad sem Esaias seiger 33. Cap. Vei þi-
er/ þu sem eydeleggr (vtarmar) adra/ mei
nar þu ad þu muner ecke verda eydelagd-
ur ? Gud giefe/ ad Menn villdu hier vm
hyra/ þeir sem hardrader og Myskunar-
lauser eru vid þa Fatæku/ + þa vtarma.
Huörnen þeir lesa þessa Bæn/ þar siae
þeir fyrer.

## Aunur Grein/ eda Spurning.

### Af hueriu/ eda med hueriu mo-
### te/ faum vier vort Daglegt
### Braud ?

Pad kiener þier Titillen edur Forma-
len framan til Drottenlegrar Bænar FA-
DER VOR/ og j þessare Bæn bidium
vier lioslega. Ad Gud vilie GIEFA oss
þad/ oforskullded/ oforþient. Alijka so
sem Smabörnen giöra/ þau kaste allre
Ahyggiu vm Mat og Dryck vppa sijna
Elskulega Foreldra/ Þegar þau vakna

6 mor

a Mornana og ern klædd/ og haþa lesed
þad Moderen skipar þeim / þa kalla
þau strax vpp ꝛ segia/Moder/gieþ mier
Mat. Þau hyra ecke vm hvad þad kost-
ar/ hvar þau þa þad/þar lata þau For-
elldrana sia þyrer. Þar þyrer/ þegar vier
lesum þsse Ord GJESU oss/þa eigũ vier
ad hyra vm þssa Hlute sem epter þylgia.
1 Fyrst/ad vier sieum j Guds Auglite
Armer Aumer Þurþamenn/hvórsu Rýker
sem vier þikiunst vera. Eñ eþ einhvór aþ
þeim Rýku seiger so / Jeg þarþ ecke ad
þiggia þad jeg heþ sialþur: Minn Vin/
Aþ hvórium heþur þu þad? heþur þu þ
nockud aþ sialþum þier? Hvad heþur þu
þad sem þu heþur ecke medteked? Nakeñ
komstu aþ Modurlýþe.
2 Hvórsu ovmrædelegur ad sie Rýkdo-
mur Gudlegs Almættis/þad lærum vier
hier/med þui ad hann daglega þæder og
nærer so adskilianlegar og otelianlegar
Skiepnur/Meñena/og allar adrar skiep-
nur a Jórdunne og j Sionum / daglega/
og lætur þær þa nog aþ allskyns Fædsu/
hvória epter sinne Tegund og sijnu Edle.
3 Vill Gud ad veir skulum bidia vm
daglegt Braud/ og leita hia hónum alls
þess sem vier hóþum Þórþ/ enn ecke med

ólöglegum Hättum/ sem er Agirnd/ Ran-
ginde/ Ran og Stuldur/ og annad þessu
lijkt/ Þesser seigia ecke/ gief off/ helldur
hrifsa þeir og grijpa sialfer.
4 J fiorda Mata/ vill Gud/ ad vier
skulum riettelega fara med þad off er af
Gude giefed/ og misbrwka þad ecke/ til
Ofneyslu eda Spillis/ Þuiad slijkt er Gu
ds Nafne til Vanheidurs.
5 J fimta mata vill Gud sem giefur
off sitt Lan/ Mat og Dryck/ ad vier skul
um taka þad til vor med Bæn og Þackar
giörd/ med Benedicite og Gratias: Enn
Gud næde/ Flester af Mönnum falla j
Maten/ eins og Kuse j Kopp sinn/an alls
Bæna ok alls eda Þackargiördar/ Slijkt
hæfer ecke.
6 Ad siöuftu er þad Guds Vilie/ ad
Menn skule erfida/ huör og eirn epter sinne
Kallan og Embætte/ Þuiad enn þo Gud
giefe Fædu og Klæde/ þa vill hann þo ad
Menn skule þar epter leita med Omake e
Erfide/ J Sueita þijns Andlits skalltu
þinnar Fædu neyta/ Gen. 3. Cap: Item/
Psalm. 128: Med Erfide handa þinna
skalltu þig næra.

## Þridia Grein/ eda Spurning.

Huønar þaum vier þetta Braud?

Andsuar/ Daglega. Þetta Ord dag lega aminner oss vm þria Hlute/ sem vier eigum daglega ad hugleida.

1 Fyrst er vor Eymd og Fatækt þyrer Gude/ Daglega hungrar oss/ daglega er um vier þurþande/ Daglega stondum vier þyrer Guds Dyrum / og bidum/ Panem propter Deum: Fader Himneskur/ þu heþur þædt oss þra blautu Barns Beine allt til þessa Dags/ gieþ oss eñ nu j Dag vora Fædu. A þig vona Augun allra Skiepna/ z c. Hier skulum vier hugleida/ Slagd hins ʒorna Fianda/ þa hann loþade Euo vorre Moder j Paradijs/ eþ ad hun æte aþ þeim ʒorbodna Auexte/ þa skyllde hun verda so sem Gud: Fijner kost uleger Guder erum vier ordner (sem Gud næde og betre) vier lijdum nu Hungur og Þosta/ Vier priosum/ vier erum siuker/ og aumer/ armer Þurþameñ/ Vier hoþū ecke Mola Matar/ nema þu Himneskur Fad er gieþer oss.

2 Þar næst kieñer oss og amiñer þetta Ord DAGLEGT/ ad þordast alla Agirnd og Hugsyke/ og læta huørn Dag haþa sijna Plagu/ og bera sijna Vmhyggiu:

Gud hefur so skapad Mansins Nattwru ad hun lætur sier listed nægia: Magan er hægt ad sedia/enn Augun ecke. Þar er eckert aumara enn agiarn Madur/ sem alldrei kann ad mettast/ og alldrei lætur sier nægia:
3 Þetta Ord daglega miñer oss a vorn Dauda/ Þar fyrer Bidium vier vm Braud/ecke nema j DAG/ad vier vitum ecke huỏrt vier lifum a Morgun/ huỏrt vier þa þurfum Brauds vid/Enn Gud nade oss auma Stympara / Allmarger draga saman med riettu + rỏngu/þikiast alldrei hafa nog/plægia og pijna þa vndergiefnu/+ taka þeim nalega Maten vr Muñe/ og safna handa sier/ Mat og Maurum/ so sem giỏrde hiñ Rijke Madur/Luc. 12. Cap: Þar adrer hungra og suellta: Vier lesum vm Jsraelis sonu/Exod: 16. Cap. Þa þeir sỏfnudu Himnamiỏlenu / sumer meira/sumer miña/þa hỏfdu þeir þo all er jafnmijked afgangs/og eingen meira eñ hann fieck vppvnned. Enn ef nỏckud var leift til Morguns/ þa madkade þ + fuunaade. J soddan mæta ma sa kallast nogu Rijkur/ sem er alla Tijma fatækur. Enn Mienn ættu ad hyga vm huad S: Pall seiger/ 1. Timoth: 6. Cap: Eckert hỏfum vier

vier hafft med off j þessan Heim / eckert hofum vier j Burtu. Þegar vier hofum Klæde og Fæde / þa lætum off þar med nægia. Vier eigum ad Bidia vm daglegt Brauð / so ad vor Bæn sie ecke j mote þui sem vier hofum ádr j fyrerfarande Bænū vm Beded. Þar vm skrifar so S. Cyprianus / J fyrer farande Bænum hofum vier afneitad Heimenum / og Beded ad Guds Rijke skyllde snart koma / og ad hans Vilie skule skie / Þar fyrer er þad j mote ádur greindum Bænum / ef ad vier Bædum hier vm langa Lijfdaga / og Kræsingar / so sem giórde hiñ Rijke madur / huör ed þa hurade mest vm Gotz og Peninga j sijna Maura / þa hans Lijf hafde Enda / Oskanda er / ad eingen sie hans Lags madur a vorum Dögum.

Enn vppa þad / ad vær mættum rata riett Mundangs hoof / j þessare Bæn ad Bidia riettelega vm daglegt Brauð og stundlega Atvinnu og næring / þa ber off ad giæra vel ad þessum epterfylgiande V. Reglum.

1 Fyrst og fremst / og yfer alla Hlute fram / skulum vier Bidia vm Salareñar Brauð / so sem Christr skipar j Gudspiallenu / Matth: 6. Cap. Leited fyrst Guds Rijke

Rÿkis og hans Riettlætis/ þa mun allt añad leggiast ydur til. Og þañen hôþum vier nu Beded j þyrerþarande Bænum/ vm Helgan Guds Naþns/vm hans Rÿke/vm hans Vilia/ad hñ meige algiôrlega verda hia oss/ Enn þessare Atþerd vmbreyta marger/þeir ed gleyma Sælunne enn ala Lÿkaman/ Þeir stunda alleina þar vppa huôrnen þeir kuñe ad saþna þyrer Lÿkam an/lata hañ eckert vanta/eñ Sælena lata þar hungra/þæda hana huôrke nie dryckia/ med sôñu Sælareñar Braude/ sem er Guds Ord/ med hreinu Hiarta og riettre Tru medteked + varduceitt.

2 Næst þessu þa skulum vier vera til reidu/og Bioda oss þram̃ þyrer Gude/ og vera hônum hlyduger/ad lÿda/eþ hñ vill lata oss lÿda Hungur og Kulda/ Fatækt eda añan lÿkamlegan Kross + Motgang. So giôrde David/ þa hañ vard ad þlyia vndan Syne sijnum Absalon/þa hñ sagde til Kieñemañaña/Bered Guds Aurk jñ aptur j Borgena/Eþ eg þiñ Nææd þyrer Drottne/þa lætur hañ mig koma aptur/ Sia/ Jeg er hier/ giôre hañ vid mig sem hônum er þægelegt/ 2: Reg. 15. Cap: Danielis 3. Cap. stendur skriþad vm þa þria Meñ huôriñ Naþagodonosor Kon
gur

gur ner rafta j pu gloanda Eldsins Ofn
þyrer þ þeir villdu ecke tilbidia þ Mañ-
lijkan sem Kongurenn hafde uppreist/ Þeir
sögdu so/ Vor Gud þañ vier dyrkum kañ
ad frelsa oss wr þijnum Höndum/ ef hañ
vill/ + þo hañ vilie ecke/ þa skalltu Kon-
gur samt vita/ ad vier heidrum ecke þijna
Gude. So sagde og sa Spitelske j Gud-
spiallenu/ Matth. 8. Cap. Herra/ ef þu
villt/ þa giet: þu giört mig heilbrigdan/
Sem hann segde so/ Heilsan er ad sönnu
good/ enn þyrr eñ eg skyllde hreiñ verda j
mote þijnum Vilia/ þa vil eg helldur ve
ra Lijkþrar alla mijna Daga. Þar þyrer
höfum vier beded/ adur enn vier bidium
vm daglegt Braud/ ad Guds Vilie skyll-
de skie.

3. Vier verdum og so hier med amin-
ter/ ad giefa Gude Dyrdena/ huör ed all-
ra best veit huad oss gagnlegt er eda ecke/
huar vm S. Augustinus talar miög merc-
kelega/ seigiande/ Sa sem Gud riettlega
bidur vm lijkamlega Hlute/ Verde hann
bænheyrdur/ þa skiedur þ af Guds Náad
og Giæsku/ Eñ verde hann ecke bænheyr-
dur/ þa skiedur þad + so af Guds Náad
ar giæsku/ Þuiad so sem Læknaren veit
betur enn hiñ sinke/ huad hönum er gagn

 legt/

legt/ og so sem Forelldrañer sia betur pyr er Börnönum enn þau sialþ/ so giörer og eirnen Gud vid oss. S: Pall seiger/ ad Anden styrke vorn Veykleika/ Þuiad vier vitum ecke/huad vier eigum ad bidia/ so sem skyllde/Eñ hañ þramgeingur sialþur vorra vegna/ oss til besta/ med oseigian-legre Andvarpan.

4 J siorda mata/eigum vier ad biþa-la þad Gude/ og trua hönum til þessa/ + setia hönum huörke Stund nie Tijma/ Skamt nie Mæta/nær hañ vill gieþa oss vort Daglegt Braud/ eda hialpa oss/ so sem þeir giördu j Bethulia/sem settu Gu de þiñ Daga skamt og þrest til hialpar/ Huar þyrer Judith þa riettelega avijtar og straþþar.

5 Ad sijdustu ber oss ad vera stadþöstü og stödugum / þo vort daglegt Braud/ + þad vier þurþum til þessa Lijþs Vpphell dis kome ecke jaþnsnart þram/ þegar vier bidium / Vier eigum ad bidia oaþlætan-lega/eins + su Cananeiska Kuiñan giörde/ + læta ecke aþ ad tia vora Neyd + Nauð-syn/ og vera styrkuer j Þolenmædenne og Voneñe/so sem Esaias seiger / 30: Cap: Augustinus seiger og so/ Þreytest ecke j Bæneñe/Gud dregur vndan sijna Hialp/

en̄ þo lætur han̄ hana ecke bregdast.

# Fiorda Grein/ eda Spurning

## Huørnen eigum vier ad bidia þſſa Bæn/ og riettelega þara med vort Daglegt Braud?

Þad ſkiedur med IIII. hættum

1 Fyrſt ſkulum vier j vorum Hiörtum og med oſſ ſialþum hallda þeſſa Bæn vera ſo ſem Beuiſſing/ Brieþ + Jnſigle vppa vort daglegt Braud/ þad er/ vppa alla lijkamlega Atuinn + Naudþurþt: Þetta (kan̄ vera) hallda þr Rijku þyrer Spott/ En̄ hinum Fatæku og Þurþøndu er þtta huggunarſamlegt.

2 Þar næſt jatum og medkien̄um vier med þeſſare Bæn/ ad aþ oſſ ſialþum til/ eda vorum eigen Styrk/ hoþum vier alls eckert. Þuiad eþ vier hurum vm Sæl vo ra/þa heþur hun ecke ſijna Fædu eda Næring/vtan alleina aþ Guds Nad + Myſkun. Aller vier/ſo Rijker ſem Fatæker/þurþum ad þiggia aþ Gude Syndan̄a Fyrergieþning/ Aller vier erum þeir andlegu Stafkallar/ og þeir Fatæku/ Hölltu og Blindu ſem bodner eru til þeirrar ſtooru

 Euans

Evangelij Kuölldmaltijdar: Ef gioͤrtum vier ad vorum Lijkama / þa hefur hann eingen betre Kiör / Huör giefur Fisk j Sio og Vötn ? Huör skapar Fienad + Fugla ? Huör kan̄ ad giöra hinn minsta Matarbita / oss til Fœdu. Huör giefur Fienadenum og öllum lifande Skiepnum þeirra Fœdu og Foodur ? Huör giefur Hör og Vll eda hin̄ minsta Þrœd / oss til Klœda ? Gud alleina: Hans Giester erum vier og allar Skiepnur / þa vier etum og dreckum jafnuel vort eiged. So medkiennum vier nu j þessare Bœn Guds Rijkd + Rijkdom + rijkuglega Næring / med þui ad vier so diarflega bidium epter hans Skipan og Rizaluingu vm alla þarfliga Hlute. Þui ad han̄ hefur jafnan so mijked epter sem han̄ giefur / Han̄ hefur þad Matarhws og þan̄ Kiallara sem alldrei þrytur / Og er þui vor Bœn / ad hn̄ vilie vera vor Bryte / Kiœmeistare vor / Kockur og Kiallaramedur / og giefa Dryginde og Blezan / j Mat + Dryck / + med Skynseme ad fara forsialega med hn̄s Laan + Gæfur / Fara ecke sem þeir ed seigia / Þa veit Hönd ed hefur / helldr so sem mællt er / Neyta sem nog sie til / enn spara þo so sem lijted sie / eda ecke.

J þrid-

3 J þridia mæta / þegar oss vel geing
ur/þa eigum vier ad fara vel og riettele-
ga med vort daglegt Braud/ og gleyma
ecke þeim Fatæka/ og vita þad/ ad eins
lijka sem sa Fatæke og Aume er hia oss/
so lijka eins erum vier fyrer Gude. Þar
fyrer eiga þr sem noglegt hafa/ad þacka
Gude þar fyrer/sa sem þeim veiter ꝛ gie
fur/so ad þeir eru ei þurfande. Eñ huör
nen geingur þad til ? Þad fer eins ꝛ Gud
klagar hia Spamañenum Esa: 1. Cap.
Þar hañ seiger/ Eirn Uxe þecker siñ Her-
ra/og Asnen þecker sinn Stall/Eñ Jsra-
el þecker mig ecke. Skynlausar Skiepn-
ur elska þañ sem þeim giörer gott/ Jörd
eñ bitalar med Abata þeim sem hana yrk
er og tedur/eñ su auma Mañskiepna vill
ecke þeckia nie elska þañ sem hana hefur
skapad/ꝛ ecke þacka hönum sem heñe gie
fur Fæde og Klæde/Gud næde slijkt.

Vier eigum og ad lifa sparlega/for-
dast Ofneyslu og allt Ohoof so j Klæd-
nadenum sem j Mat og Dryck/ og hyta
vm Reglu S. Pals/ þar hñ seiger/Þegar
vier höfum Fæde og Föt/þa lætum oss
nægia þar med/ 1. Timoth: 6. Cap.
Nema vier vilium hafa samlag mz þm
Rijkamanne/ Luc. 16. Cap. Þuiad Of-

 neysla

nrysla og Ohoop er vppbaþ til alls Jlls/
Þar þyrer aminñer Christur oss j Gudspiall
enu/og seiger/Vakted ydur/ad ydar Hiört
tu þyngest ecke/med Ofneyslu + Ofdryck
iu/ Luc. 21. Cap.
4 J Fatækt og Motgange þa skal
þesse Bæn vera oss so sem eitt almeñelegt
Brer og Matarhws/ur huöriu ad kiem
ur/og huadan oss verdur veitt og framm
lated allt þad sem vier þurfum til þessa
Lijfs Vpphelldis/ þar fyrer hefur Gud
þessa Bæn styrkt og stadfest/+ so sem jñ-
siglad med margföllldum Fyrerheitum og
Epterdæmū. David Kongr seiger j Psal.
37. Jeg var vngur/enn er nu orden gam-
all/og sa eg alldrei þañ Riettlata yfer-
giefen/eda hñs Sæde fara a Vonarvöl.
Huörsu ad Gud fædde og klædde Jsraels
Sonu j Eydemörkeñe vm 40. Aar/ þad
lesum vier j Bibliunne: Og j. 4: Konga
Bokeñe/ 6. + 7. Cap. lesum vier þasam
lega Historiu/ Þegar Syrlands Kongur
hafde seted vm Samaria vm langan tij-
ma/þa vard soddan Sulltur j Þrre Bo-
rg/ ad eitt Asna Höfud selldest fyrer 80.
Peninga/ Eñ añars Dags vard so good
Tijd/ad eirn Mæler Hueitemiöls selldest
fyrer eiñ Pening/ og tueir Mæler Byggs
lijka

lyra so vyrr.
// Nu er aññad/ þa ſo til ber/ ad Gud ſtr=
// aͤþþar Lönd og Lyde/ med Hungre og
// Hallære/ ſo ſem vier meigum jata og
// medkieña/ ad hañ heþur giört vid þer=
// ta Land/ nu vm næſtu nockur þorliden
// aͤr/ hvar aþ ad ſo mörg hundrud aum=
// ra og þatækra Manna eru aþ Hungre
// og Atvinnuleyſe þallen/ þa eru þar ſier
// legar Greiner til/ Sem er Gudz Ords
// Forſmaͤn + Forakran/ hia nær öllum
// þeſſa Lands Inbyggiörum hærre ſtiet
// ar og lægre. Þar næſt Synder og Glæ
// per/ ſem hier meir + þramar lijdaſt ö=
// refſter og oſtraþþader eñ j nockru Lan=
// de ödru. Þar þyrer heþur Guds alvar=
// lega Riettlæte/ orded ad ſtraþþa allt
// þetta Land/ + ſtraþþar eñ nu/ + er þo
// ei enn þyrer enda giört/ a medan vier
// höllduñ ſömu þram̃. So leſum vier/
// adþyrer Synda og Glæpa ſaker/ heþ=
// ur Gud alla tijma ſtraþþad þa Ogud=
// legu/ ſtundum med Hungre + Hallære/
// ſtundum med Drepſottum/ ſtundum mz
// ödrum Land plagum: Þar þyrer/ mz
// þui Meñ vilia ecke lata aþ Syndön=
// um/ ecke hlyda Gude/ ecke giöra Id=
// ran og Yþerboot/ þa vill Gud + ecke

 helldz

// helldur læta aþ ſinne Refſingu / nema
// þad hann aþ ſiñe Giæſku gióra vill/
// vegna Utvaldra ſiña/ þo ei ſie marg-
// er. Og kiemur þetta ecke ſo vid þeſſa
// Bæn/ og ei veyker þetta Guds Fyrer-
// heit/ þo hañ ſtraþþe oblyden heimſk
// og þuerbroteñ Börn/ med Hungre og
// Hallære og Dauda/ þangad til þau
// gióra Jdran og Yþerbot.

J Nidurlage þeſſarar Bænar/ ſkul-
um vier gióra Bæn til Guds med Agur/
ſem ſtendur j Salomonis Ordſkuidum/
30: Capitula / Þar ed hann ſeiger ſo.
Drotteñ/ Vm tuet bid eg þig/ z villda eg
þu veitter mier þad ædur eñ eg dey. Læt
Hiagudadyrkan z Lygar vera langt þra
mier/ Gieþ mier ecke Fatækt / ei helldur
Rijkdom/ Helldur læt mig þa miñ deilldã
Verd/ Ellegar mætte til bera/ ad eg aþ-
neite þier/ þa eg er mettur/ z ſeige/ Huør
er Drotten ? Ellegar eþ eg verd oþ þa-
tækur/ ad eg yrde þa ad ſtela/ og þorgrij-
pa mig a mijns Guds Naþne. Gud blez
adur myſkune ſig yþer oſs aumar Skiep-
nur / og gieþe oſs vora Fædu og Atuiñu
til

# Siötte Sermon/ eda Predikā.

## Vm þa fimtu Bæn.

### Fyrergief oss vorar Skulld-er / So sem vier fyrergiefum vorum Skulldunautum.

Þessa Bæn vm Syndaña Fyrergiefn ing þurfum vier daglega ad bidia/ fyrer III. merkelegar Greiner/ sem epterfylgia.

1 Þuiad vier erum aller samam Synd-ugar/ önguñm vndan teknum. Barned sem er a Modurbrioste þad er ecke Saklaust fyrer Gude. Johannes Postule skrifar vm sig og adra Christna og Riettrúada/ sem hreinsader voru med Jesu Christi Gudz sonar Blode/ Ef vier segium/ ad vi er höfum önguа Synd/ þa svijkium vier sialfa oss/ og Sannleikuren er þa ecke j oss/ Ja/ vier giörum Gud ad Lygara/ og hans Ord er ecke j oss.

2 Þar næst erum vier stadder j hrædi-legum Haska og Voda/ bæde til Sálar

og Lijfs/nema so sie/ad oss verde Syndernar fyrergiefnar/ og ædur eñ vier faum Syndanna Fyrergiefning: Þar fyrer ligg ur oss hin allra stærsta Naudsyn a þessare Bæn/ huört sem vier erum vakande eda sofande/eda huad hellst vier giörum/ og höfum ad.

3 J þridiu Grein/ þa er vor Veykleike og Synd so stor og þung/ ad ecke er oss mögulegt ad bitala eda borga/eda bæta hina minstu Synd. Þar fyrer þurfum vier aller/einn med ödrum / ad bidia vm Fyrergiefning. David Kongur seiger/ Psalm. 32. Sæll er sa / huör sa ? Sa sem Rijkur/ Hrausstur + Heilbrigdur/eda Vinasterkur er ? Nei/ecke so/ Helldur sa/ huorium Yfertrodslurnar eru fyrergiefnar/ + huors Synder huldar eru/ + hann huorium Drotten tilreiknar ecke Misgiörddernar. S. Cyprianus talar so vm þessa Bæn: Med þui ad vier erum nu buner ad bidia vm vort Braud/ þa bidium vier nu þar epter vm fyrergiefning Syndañа/ so ad sa sem af Gude er mett ædur/meige og so lifa i Gude. Gud giefe ad vier lærdum þessa Bæn vel og vandlega/ þui þar liggur oss mykel Makt a.

Þui-

Þuiad an heñar/ og nema hun ſie med/ þa eru allar hinar adrar Bænernar gagnlauſar: Einglarner þurþa ecke ad biöia þeſſa Bæn/ þui þeir haþa önga Synd/ Diöþlarner haþa eckert Gagn aþ heñe/ þui ad þeir haþa eckert Fyrerheit/ ad þr ſkule Bænheyrder verda. Eñ vier aumar Mañeſkiur/ vier þurþum heñar vid/ oſſ liggur Magten þar a. Vier höþum Syndena/ huöria Einglarner haþa ecke/ vier höþum Fyrerheited vm Fyrergieþningena/ huört Diöþlarner haþa ecke.

Atta Spurningar þalla hier til/ eda Greiner/ ſo ad þeſſe Bæn verde vel og riettelega ſkilen.

I Huor þyrergieþur Syndernar?
II Huørnen verda þær þyrergieþnar?
III Med huorium Skilmaala þyrergieþaſt þær?
IIII Verda nockud allar Synder þyrergieþnar?
V Verdur huørtueggia þyrergieþed bæde Sekten/ z ſo Reþſingen?
VI Kann nockud Fyrergieþningen Syndanna ad riuþaſt?

Fyrer-

VII Fyrergiefast Syndernar epter Daudann?

VIII Huørt Gagn høfum vier af þess are Bæn/og huørnen eigum vier med hana riettelega ad fara?

## Fyrsta Grein/ eda Spurning.

Til þssarar Spurningar/Huør Syndernar kann ad fyrergiefa/ meigum vier Andsuar taka/ af Formæla Drottenlegrar Bænar Fader vor/sem er/ad Gud Fader og Sonur og Heilagur Ande/hañ er alleina sa sem Syndernar fyrergiefur/eñ einginn annar. Lijka so sem eingen ma giefa nöckrum kuitta añars Mans Skulld/vtan alleina sa siñ Skulldena a ad heimta/ Nu erum vier alleina Guds Skulldunautar/† hófum hönum j mote syndgad/þui ad Gude giórum vier j móte alla tijma/huört helldur vier briotum a mote þeirre fyrre Töfluñe/ eda añarre/j Guds Lögmæle/ Þar fyrer er Gud sa alleina sem Syndernar fyrergiefur. Þetta dæmdu Pharisei riett/þa þr sögdu/Luc. 5. Cap. Huör kañ ad fyrergiefa Syndernar nema Gud alleina? Eñ þad dæmdu þeir rangt/

gt/ad Christur mætte ecke fyrergiefa Syn dernar/og þad þeir neitudu ad hañ være Gud/ þar hañ strax audsynde med Gudo domlegu dasemdar Verke/ ad hans Persona/Lærdomur og Dasemdar verk være allt Guddomlegt/Þuiad hñ heilbrigdan giörde olæknanlegan Siukdom/ ecke nema med einusaman Orde:

Nær Guds Ords Þienare til seiger nöckrum Syndanna Fyrergiefning/ huört helldur þad skiedur j heimuglegum Skriptarmalum/edur opinberlegre Aflausn/ Þa giörer hann þad so sem eiñ Þienare/ af Gods Afu/epter þess Tru og Jatnin gu fyrer Gude/siñ Aflausnena medtekur. Þar fyrer/ huör hellst sem vill hafa Gagn af þeirre ytre Aflausnēne/sa skal vera fyrst forlykttur vid Gud/ fyrer sama og rierta Jdran. Sie hans Jdran og Jatning fyrer Gude ecke af Hiarta/ þa stodar Aflausnen hönum eckert/helldur verdur su Jatning og Aflausn hönum til fyrir bre Fyrerdæmningar.

Sömuleidis/ þegar vier fyrergiefum huör ödrum jnbyrdis Misgiörderuar/Þa stodar þad eckert/ nema Gud og einnen fyrergiefe vnder eins / þeim ed misgiörde:

Þetta ber oss ad merkia/ j mote þeim Rom-

sem Rómuerska Páua / huór ed þa Magt tekur sier til / ad fyrergiefa Syndernar / þeim ed hañ vill / lifondum og Daudum / þar fyrer er hañ vppmaaladur med þrem ur Koronum / ad hañ þikest Magt hafa a Himnum ꝛ a Jördunne og j Hreinsunar Elldenum.

## Auñur Grein / eda Spurning.

Huørium fyrergiefast Syndernar?

Andsuar? OSS Mónnónum

Ef ad vier vilium akta og alijta all an fiólda þeirra Ogudlegu / þa eru þeir fæer (Gud næde) sem fa Fyrergiefning Syndaña. Eñ ef vier alijtum Guds óseig ianlega Nad ꝛ Miskun / þa er Syndaña Fyrergiefning frambodeñ óllum Mónnum / So þar er eingen vndan teken / ad ecke fae Syndaña fyrergiefning / og ecke verde þar vm bænheyrdur / ef hañ bidur af Hiarta / huórt hann er Gydingur eda Grijskur / Rijkur eda fatækur / Vngur eda gamall / Kuinna eda Kall / Fry eda Þræll. Þuiad Guds Fyrerheit vm Syndaña fyr ergiefning er almeñelegt / og heyrer óllum Mónnum til / so sem Christur seiger sialf=

ur /

ir/ Komed aller til myñ/ Matth. 11. Cap. So seiger ꝛ S. Pall/ Rom. 11. Cap. Gud hefur alla Meñ innelukt vnd- er Syndeñe/ vppa þad ad hañ villde mysk- una sig yfer alla. Item/ seiger S. Joha- nes/ 1. Johñ. 2. Cap. Ef ad vier synd- gum/ þa höfum vier Medalgangaran hia Fódurnum/ Jesum Christum sem ad er Riettlætur/ og sa same er Forlijkun- en fyrer vorar Synder/ Þo ecke alleina vo- rar/ helldur fyrer alls Heimsins Synder. Item/ skrifar S: Pall so til Timotheũ/ 1. Timoth. 1. Cap. Þad er vissulega satt/ og eitt dyrmætt verdugt Ord/ ad Jesus Christur er komen j Heimen/ til ad giöra Syndüga Saluholpna/ a medal huörra jeg er hiñ hellste/ Eñ jeg hef þar fyrer Myskun ödlast/ ad Jesus Christus villde læta sia alla Þolenmæde a mier/ þeim til Epterdæmis sem trua muni a hañ/ til ad fa eilijft Lijf. Hier af meigũ vier sia ꝛ læra/ huörsu ovmrædelegt ad er Guds Nædar ꝛ Myskunar Rijkdomur:

## Þridia Grein/ eda Spurning.

Med

Med hvorium Silmæla/ edr med hvilÿku Fororde þyrergieþast Syndernar? Andsuar:

So sem vier þyrergieþum vorum Skulldunautum.

Þennan Silmæla hliotum vier ad hallda / eþ ad vier vilium þa Fyrergieþning vorra Synda og Sekta.

1 Fyrst hliotum vier ad giöra eina rietta saña aluarlega Jdran/ an alls Yþervarps og allrar Hræsne:

2. Þar næst verdum vier ad haþa eitt aluarlegt ꝛ stadþast Aþorm / ad liþa siþañ Gudrækelega: Lækninga meistarar hallda/ ad þad sie miög hasķasamlegt ad þalla aptur j sama Siukdom/ eþ ad Manne heþur Batnad. Myklu hasķasamlegra er þa þ/ ad þalla aptur j Syndena/ vr þui hun er eitt sinn þyrergieþen. Og Chrysostomus seiger/ Miög er sa omaklegur Heil brigdennar/ sem særer sialþan sig/ vr þui hann er groen/ Og overdugur er sa ad hreinsast/ sem saurgar sig sialþur/ vr þui hñ heþur Nædena medteked. Þessum jaþnar S: Petur vid Suyn ꝛ Hunda/2. Pet. 2.

3 Þar næst skulum vier leggia Astundan a broddurlega Forlÿkun/ vm hvoria Christ=

Christur talar framveigis/ epter Drottenlega Bæn/og seiger / Ef þier fyrergiefed Brædrónum þeirra Misgiörder / þa skal ydar Himneskur Fader og eirnen fyrergiefa ydur/Enn ef þier fyrergiefed ecke/þa mun og ydar Fader ecke fyrergiefa ydur ydar Synder. Hier være vel Þörf og Naudsyn/ad þeir hyre vm sinn Hag sem ecke vilia ödrum fyrergiefa/Huad giöra þeir añad/þa þeir lesa þessa Bæn/eñ ad þeir Bidia og oska sier Guds Reide/og ad þra Synder skule alldrei verda þeim fyrergiefnar? Slijkt er miög hryggelegt og hrædelegt/og þar fyrer liggur Magt a/ad vier fyrergiefum vorum Naunga/ella egar lesum vier þessa Bæn/ ecke nema oss sialfum til skada/Lijfs og Sælar/ þar fyrer seiger sa Heilage Lærefader Chrysostomus/ Sa Bidr Gud forgiefens vm fyrergiefning/sem ecke forlijkast vid siñ Naunga. Seneca seiger so/ Þad er agiætt/ad lata Osamþycked koma til af ödrum eñ Sætt og Forlijkan af þier.

## Fiorda Grein/eda Spurning.

Fyrergiefast oss allar Synder?

Vissulega:

 Ef ad

Ep ad oſſ þyrergiæþeſt ecke allar Sy⸗
nder/ þa er ſem eingen være þyrergieþen/
være ein epter/ Þuiad huör ein/og hin all⸗
ra minſta Synd er makleg eilijþs Dauda:
Hugleidum huörſu ad ein Synd Adams
ſteypte öllu Mañkyne j eilijþa Fyrerdæmu
ing/ heþde hũ ecke orded þyrergieþen. Hug
leidum Herrans Jeſu Chriſti Embætte/
þad kieñer oſſ/ ad allar Synder þyrergieþ
aſt/ Þuiad hañ er komen Sæluhialplegi
ad giöra allt þad ſem var þortapad. Ep
ad Gud þyrergieþur ſumar Synder/eñ ſu⸗
mar ecke/ þa mun hañ añad huört halldę
epter þm ſtoru Syndum/eda þeim ſma/
Hiellde hañ epter þeim ſtoru Syndum/ꝛ
þyrergiæþe þær ecke/Huad ſtodade oſſ þa
þo hũ þyrergiæþe ſma Syndernar? Vill⸗
de hañ og ſo þyrergieþa ſtor Syndernar/
eñ hallda ſma Syndönum oþyrergieþnũ/
Huad Gagn kañ Gud Blezadur haþa þar
aþ? Þetta er ei oliijkt/og þa eirn vill gie
þa ödrum kuitta þuſund Dale/ eda eitt
Hundrad hundrada/eñ reiknar þo eiñ Dal
eda þiñalner/ꝛ kreþur þrra miög hard⸗
lega/Huörrar Skynſemdar kieñer þad?
So hæþer og ecke/nie ſomer Guds Rijk⸗
doms Giæſku og Myſkun/ad þyrergieþa
ſumar Synder enn ecke ſumar. J Epterr⸗
lijking

lykingunne/ Matthy. 18. Cap: vm þann Pienara sem var skylldugur sijnum Herra vm tiu þusund Pund/ verdur þetta hid sama Beuÿsad/ þar Kongurenn seiger til Pienarans/ Þu argur Skalkur/ Alla þá Skulld gaf eg þier kuitta/ þa þu badst mig. Hier vppa hlyda þesse tuo gömull Vers.

Larga Dei pietas, veniam non dimidiabit.

Aut nihil aut totum, te lacrymante, dabit.

Meiningen er þesse/ Guds ovmrœde leg Millde og Myskun fyrergiefur þier/ ecke helmingen/ helldur allar þijnar Saker og Synder/ nær ed þu bidur hann med gratande Tarum. Hugleidum þar fyrer/ hvad ovmrœdelega mijkel ad er Naad og Myskun Guds/ med þui ad hañ fyrergiefur oss allar vorar Synder/ bæde vpprunasyndena og allar giöranlegar Synder/ bæde daudlegar og nadarlegar/ bæde smar og storar. Og þetta er so asett j Guds Guddomlegu Raade/ ad med þessum hætte vill Gud saman safna sier hier eine christelegre Kirkiu/ og giefa henne eilijft Lijf j Himnanna Rijke: So þarf nu eingen ad vera efasamur eda vantruadur my

Cain/ſem ſagde/ Stærre er mijn Synd/ enn ad hun meige mier fyrergiefaſt. Helldur ſeigia ſem S. Auguſtinus ſagde/ Þu lygur Cain/ Guds Nad og Myſkun er myklu meire enn Eynd allra Syndugra. Enn þo ſamt hæfer ecke/ad vier ſyndgum vppa Guds Nad/helldur ad vier lætum af Syndónum/og koſtgiæfum ad lifa ſo Gude lijke/ j Heilagleik og Riettlæte fyrer hönum/ alla Daga:

## Fimta Grein/ eda Spurning.

Mun huortueggia fyrergiefaſt/ bæde Synden z Sekten/ Skulld/ og Refſingen?

Vier hölldum/ ad þad verdur huörtueggia fyrergiefed/ Þuiad/ huad ſtodar oſſ ellegar Syndāna Fyrergiefning/ef ad Refſingen ſkyllde ſamt koma? Þad være ecke olijkt/ſo ſem þa/ ef einhuör fyrergiefe Þiofnum/ enn liete ſijdan heingia hañ. Chriſtur hefur Bitalad fyrer Syndena/ ecke alleinaſta med Hlydneñe Lögmalſins helldur hlaut hañ og ſo ad veita Hlydne j Pijnuñe og vnder Kroſſenum/ſo ad hañ med Þm hætte/bæde med Hlydneñe z ſiñe Quöl og Pijnu Bitalade og borgade/bæde

fyrer Syndena og Syndareñar Strafp i Refsing. Þar fyrer skulum vier fullkomlega hallda og trua þui/ad Gud fyrergie fur ecke alleinasta Syndena/ helldur i so Strafp og Refsing Syndareñar.

Nu ef einhuør seiger so/ Ef ad Syndareñar Strafp verdur fyrergiefed/ Þui verdum vier þa plagader/ med Sottum og Siukdomum/ ia og so med Daudanum ? Er þad ecke Syndareñar Strafp ? Er ecke Dauden Laun Syndarañar ? Na than Spamadur predikar fyrer David/ ad Gud hafe burt teked hans Synd / enn iafnsnart seiger hann/ Suerded skal ecke vijkia af þijnu Huse æfenlega. Item/ Med þui þu hefur komed Ouinum Drottins til/med þessarre Synd/ad lasta hñ/ þa skal sa Sonur sem þier fædest vissulega deyia/ Þar fyrer er so ad sia i merkia/ad Gud fyrergiefe Syndena/ enn ecke Syndareñar Strafp og Refsing.

Hier eigum vier vel ad athuga og merkia/ III. Greiner/ huar fyrer Gud leggur stundlega Refsing/Strafp og Plagu vppa oss hier i Heime.

I Gud hañ strappar fullkomlega sier legar Synder med sierlegum Plagum og Krossburde/ so sem nu heyrdum vier af

 Dæme

vard frelsadur/og marger adrer.

4 Optsinnis hefur Gud frelsad sijn Börn fra Illu/med Jardteiknum og Dasemdar verkum. Med þeim hætte frelsade hañ þa þria Menn j Brennanda Babilons Ofne/So og Daniel j Leona Grôfenne. So vrdu og Israels syner dasamlega frelsader j Hafenu rauda/Og marger adrer hafa dasamlega vered frelsader j storum Voda og Haska.

5 Ad sijdóstu verdum vier endelega frelsader fra Illu/þad skiedur fyrer lijkamlegan Dauda/Af huórium vier munum aller vpp aptur rijsa a seinasta Deige/ og ódlast þa eilijfa Saluhialp Dyrd + Glede/og verda leyster og frelsader/ ecke ad eins fra ôllu Illu/helldur fra allre Hrædslu/ôllum Otta/epterkomanda Ills/Þesse Endurlausn og Frelsan/ er hin allra gledelegasta/hennar eigum vier ad oska/ vm hana eigum vier daglega af ôllu Hiarta ad bidia:

## Fiorda Grein/eda Spurning.

Huornen eigum vier ad bidia þessa Bæn ?

J Sijdgra handa mæta/ eda med Biot

1 Fyrst j vorum Hiörtū/ Þad skiedur þegar vier aþ Hug + Hiarta setium allt vort Trunadartraust a Jesum Christum/ sem alleina kañ og vill/epter sijnu Fyrerheite/ad þrelsa oss þra öllu Illu/Og seigium med S. Cypriano/Med þui ad Gud er vor Verndare j Heime þessum/Þui vil ium vier þa vera hrædder?

2 Med Muñenum eigum vier + so ad bidia þessa Bæn/ so ad vier Daglega Supplicerum til Guds/og bidium ad hañ giefe sinne Christne andlegan og stundlegan Frid/Ad hañ vernde og vardueite hana þyrer heñar Ovinum og Oþsoknörum Villumöñum/Oþride/Osamþycke/Hneyxlönum/Drepsottum/+ ödrum Plagum/ og so eilijþum Dauda/ Item/ad hñ þyrr eñ seirna/epter sijnum Vilia/gieþe og veite oss þullkomlega Endurlausn og Frelsan þra öllu Illu/og eilijþt Lijþ.

3 J öllu vorn Framþerde/ þa eigum vier ad lata Þssa Bæn vera oss eina Reglu/epter huörre vier skulum lifa/ j þann mæta/ad þordast allt Illt/epter þrekast æ Megne/þad er Syndena/so ad Syndaren nar Straþþ og Refsing meige verda j þra oss surt teked. Enn Gud næde og betre/

hvörnen vier Synndernar forđunſt·

4 J Kroſſe og Mótgange/ j Sóttum og Siukdomum þa ſkal þſſe Bæn giefa oſſ Orſóc og Tilefne/ til Þolenmæde/ Og ſkulum vier minnaſt hvad Seneca ſag de/ Miſer eſt qui nunquam fuit miſer, Miſeros reputo qui nimia fælicitate torpeſcunt: Þad er/ſa er aumur ſem all dreí hefur aumur vered/Og þan helld eg auman ſem alla Daga hefur vered Far ſæll. Þar fyrer ſkulum vier alla tijma medtaka og lijda Króſſ og Mótgang mz Þolenmæde/ af Guds milldre Hónd / og kienna hann ónguum ódrum en hónum. So ſm ſeiger S. Auguſtinus/Ecke eina Sau darhnyckiu kunne Dióffullen ad taka fra Job/fyrr en Gud leyfde hónum þad/En þegar Gud lofade Dióflenum þad/ þa giórde hann þad / fyrr ecke. Þar fyrer tal ar ecke Job þeim Ordum: Drotten gaf og Dióffullen tok þad/ Helldur ſó/Drott en gaf þad/og Drotten burt tok þad.

So ſkulum vier og ſeigia/j óllum vo rum Mótgange/og óllu þui Jllu ſem ep ter Guds Vilia yfer oſſ kiemur/ þa mun um vier viſſulega fa Sigur/og verda leyſ ter og frelſader fra óllu Jllu: Þad giefe oſſ Gud vor Himneſkur Fader/ hvórium

ad

ad þier med sijnum Syne og Heilögum Ands/ Lof og Heidur/ fra Eilijfd til Eilijfdar/ Amen:

## Nijúnde Sermon/eda Predikan/ Vm Nidurlag Drottenlegrar Bænar.

## Þuiad þitt er Riiked/ Magten/og Dyrden ad Eilijfu.

Allt hingad til höfum vier vtskyrt þær VII. Bæner j FADER VOR/j hu orium Christur hefur kient oss ad bidia vm alla naudsynlega Hlute/ til Lijfs og Salar. Nu fylger epter Nidurlaged a þessare Bæn/sem nu var vpp lesed. J fyrre Latinsku Bibliunne standa þesse Ord ecke/enn eru þo bæde j þeim Hebresku og Griska Textanum/ Og meina sumer/ad þesse Ord hafe af einhuorium Gudhræddum Manne vered lögd til Bænarennar/eins og Gloria Patri til Psalmanna: Enn huornen sem hier vm er hattad/ þa skulum vier vita/ad fyrer II. merkelegar Orsaker/hafa þesse Ord vered sett j Nidurlage

lage þessarar Bænar FADER VOR.

1 Fyrst eiga þesse Ord/ad vera oss so sem ein dagleg Þackargiörd til Guds/þyr er þad ad hañ heþur bænheyrt oss/ + lated oss aukast sañа Kyñing sijns Guddomlega Nafns/ad hann sie Almættugur/ + kuñe ad veita og giefa allt þad vier vmbidium. Af þessare Hugun/eykst med oss Girnd og Astundan til ad bidia/ So ad þo vier villdum ecke bidia añars vegna/ þa bydur þo Skylldan/ad vier bidium daglega Guds Dyrdar vegna/Vppa þad ad vier jduglega jatum og medkiennum Guds Almætte/ hans Rijke + Dyrd;

2 Þar næst þaum vier af þessum Ord um Diörfung + Hughreysie/til ad bidia/ med þui ad vorar Bæner eru grunduall adar a þeim Fódur/huörs ad er bæde Rijked/Makten/og Dyrden. Skylldum vier þorlæta oss eda treysta a vora Forþienan eda nóckud annad/ þa mundum vier ecke þora eitt Ord j hliode ad tala til Guds/ auk helldur ad bidia so diarflega/ En nu er þad vor Huggun/ad sa Himneskur Fader huörn vier akóllum/hañ vantar alldrei Rijke/Magt og Vellde.

So er ad sia sem þesse Ord sie saman teken af Bæñ Davids + Josaphats/

i. Par

1. Paralip. 30. Cap. Þegar Gud villde kalla David af þessum Heime/ þa giörer han̄ Gude Þacker/ og medkienner/ ad hūn hafe af hönum alleina haft alla Luckr og Velgeingne j sin̄e Konglegre Rijkisstiorn/ og seiger so/ Lofadur sie Drotten Jsrael vorra Fedra Gud eilijflega. Þier ber Vell ded/ og Magten og Dyrden/ Siguren og Þackargiörden/ Þuiad allt þad sem er a Himne og a Jördu/ þad er þitt/ Rijked er þitt/ og þu ert vpphafen yfer alla Höfdingia. Þijn eru Audæfen/ þijn er Dyrden/ Makt og Kraptur er j þinne Hende/ Vier gofgum þitt Dyrdarlega Nafn/ Þad er allt komed af þier/ og af þin̄e eigen Hen de höfum vier giefed þier þad aptur. J sama mata talar og einnen Josaphat/ 2. Paralip. 20. Cap: Þa þeir Moabitar/ og Am̄onitar villdu yferfalla og yfervin̄a han̄/ Drotten j þin̄e Hende er Krapturen̄ og Makten/ og eingen er sa sem kann ad standa þier j mote/ og ct.

J þessu Nidurlage Bænaren̄ar standa fiögur Nöfn edur IIII. Titlar/ af huörium vier hroosum Gude vorum Himneska Födur/ huörn vier höfum j fyrerfarande Bæn̄ tilbeded/ Huör Nöfn ecke meiga til leggiast nöckre Skiepnu a Himne

 eda.

eda a Jördu.

Vier hrosum höfum.

I  Aþ hans Rÿke.
II  Aþ hans Makt.
III  Aþ hans Dyrd.
IIII  Aþ hans oseiganlegre Eilijfd.

Vm þad Fyrsta.

Vm Guds Rÿke var talad ædur j aňarre Bæn:ňe/ eñ hier j þessu Nidurlage/ þa er þtta Meiningen: Drotten Bæn heyrdu oss Mysknnsamlega/ vm þad siñ vier höfþum beded þig/ Þuiad þitt er RJKED/ Þad er/ Þu alleina ert sa rietta Kongur a Himnum og a Jördunne/ sem skapad heþur alla Hlute/ og añ añar legrar Hialpar þeim vid Magt helldur. Fyrer þig rijkia Kongarner/ Höþdingiarner og aller Valldsmenn a Jörduňe. Þu heþr j þessum Heime eitt Nadar + Mysk unar Rÿke/ j þui Drottnar þu/ þyrer þitt Ord/ Heilög Sacramenta/ + Helgan Anda/ J þessu Rijke erum vier þijner Þionar og Þegnar/ og vitum þyrer vijst/ ad þu kant ad vernda oss + þrelsa þra öllum Ovinum þins Rÿkis. Þu heþur eitt Almattugt Rÿke/ sem tekur yþer Himen og Jörd og Helvijte. Þu heþur þulla Magt oc

og allt Valld yfer öllum Hlutum/Huörn eigum vier ad bidia vm Hialp og Verndan nema þig ? Aþ huörium eigum vier ad oska alls þess sem oss liggur a/ nema aþ þier ? Þu heþur og so tilreidt Dyrdar eñar Rijke/handa öllum Þegnum og Jñbyggiörum þijns Nädar Rijkis. Veralld leger Kongar/og aller Herrar ⁊ Kongar a Jördunñe/þeir eru þijner Þienarar ⁊ Lienssmenn/ og haþa Liene aþ þier og Veitingar/⁊ haþa suared þier/⁊ so leinge sem þeir iata þad og medkieña/þa haþa þr Luckn/Ellegar kuña þeir ecke vel og leinge ad rijkia: Þad reynde hiñ mykle Nabogodonosör/ Þad haþa reynt marger Kommerske Keisarar/⁊ fleire adrer/sem ecke haþa þeckt og medkient þig og þitt Rijke. Þar vallt eirn Steirn/ an Handa tiltekta/ wr Fiallenu/hañ slær Bilæte þr ra Rijkisstiornar vm koll/sem er aþ Leir og Jarne/so þad molast j sundur/og verdur so sem Agner/ huörium Vindur burt feyker/so þar verdur eckert epter/ Dani: 2. Capitula.

Med þessu skulum vier hugga oss j giegn Diöfulsins Rijke/og hans Ulfakt ⁊ Heitingum. Hann seiger ad öll Heimsins Rijke heyre sier til/Enn hann lÿgur/Þau

 heyra

heyra þier til Drottenn/ þu ert Kongurenn alleina/Þitt er Rijked. Minſtu a þitt Konglegt Embætte/ Vier viliuni giarna vera þier hlydner/ſo ſem heyruger og truer Vnderſatar. Vier höfum j Skijrneſſe ſuared Eid/og lofad ad vera þier hlydner/ og truer/og þu hefur lofad ad hialpa ꝛ vernda oſſ. Þu hefur ſundurmolad Högg ormſins Höfud/og giört Dioſulſins Verk ad öngvu/ Þu ert vppfarenn j Hæder- nar/og hefur Fangelſed til fanga teked og gefed oſſ Mönönum Giafer: Vardveit og frelſa þu oſſ fra öllu Jllu:

## Þijn er Makten.

Þad er/ Þu ert alleinaſta Almætt- ugur/ og þu kant ad giøra allt þad ſem þu villt. Þad er ecke nog þo eirn Kongur hafe vnder ſier Lönd og Rijke/Borger ꝛ Kaſtala/ſtrijds Folk ꝛ ſterkann Lids afla/ Hann hlytur og ſo ad hafa Valld og Makter þeim/ ſo ad þeir hlyde hönum/ So ſem Hundrads Höfdingenn j Gudſpiallenu hroſar þui/ad þar hann ſkipar nöckrum ad fara/þa fare hann/ og ödrum ad koma/ þa kome hann.

Þaȷſenn er nu Drottenn oſeiganlega Stor og hans Makt er daſamleg/ſeiger Syrach

43. Cap.

43: Cap. Lofted og prijsed han̄ so hatt sem hier kun̄ed/ hn̄ er po ollu hærre. Ei nglar Guds hafa mykla Makt/ og par fyrer kallast þr Potentes Virtute, pad er sierker Kappar/ Enn þeir hafa ecke pa Makt af sialfunm sier/helldur af Gude/ huørs Bod og Bifalning þeir giora. Kon gar og adrer Høfdingiar eru opt miøg mektuger/en̄ þeirra Makt er ecke par hia Guds Makt. Þeir hafa sijna Makt af Gude/ so sem þr medkien̄a j sijnum Bre fum og Giorningum/ad þeir hafe Kong dom og Rijke af Guds Nad. Han̄ allei na er Invictissimus oyfervin̄anlegur. Hn̄s Makt er osiganleg. Himenen̄ er hn̄s Sæ te/en̄ Jorden er hans Footskør/ Han̄ allei na veiter og giefur ollum allt. Til Dæm is ad taka/ Vier bidiu̅ Gud um̄ vort Dag legt Braud/ Nu ma og þikia ad Kongur kun̄e og vel ad giefa þier Upphellde. En̄ læt so til bera/ sem Gud hootar/ Deut. 28. Cap. Ad Himenen̄ og Lopted vpp yf er þier verde sem Kopar/og Jorden vnder þier sem Jarn/ Pad er/læt sem par ko me Hungur og Hallære/ læt Hernad koma yfer Lond og Rijke/ taka j burt Korn og Vister/ og allt pad Men̄ skulu hafa sier til Atuin̄u/ pa kann Kongen so snart ad skorta

ſkorta ſem Rotkallen / En Gud þann er alleina Mektugur / ad gieþa oſſ þetta ſin̄ minſt er vert / ſem er Braud og Atvinna. Vier vilium hier ecke tala þar vm Syndañā Fyrergiefning / og allt añad ſem vier þurþum nu Salar reñar vegna / Huör kañ ad giefa oſſ þad allt nema Gud alleina? Eingen / eingen:

Eñ ſie ſo þu eþar Guds Almætte / Þa Hugleid þu Skiepnurnar / huörnen þær eru ſkapadar / huörnen þær margfalldaſt og fiölgaſt / verndaſt og vardveitaſt / og huörſu otelianlegar ꝛ adſkilianlegar þær eru a Jörduñe ꝛ j Sionum. Hufa þu vm Guds Maktar Hönd / hans Refſingar og Plagur ſem hañ heþur læted koma / yþer þa Oblydnu og Ogudlegu. Hufa þu vm margfalldleg Epterdæme ſem ſtanda j Heilagre Ritningu. Hufa þu vm otelianleg Guds daſemdar Verk ꝛ Jardteikner: Vm Holldſins Vppriſu / og ad Gud mune ſkapa nyan Himen ꝛ nyia Jörd: Þetta og margt añad fleira / auglyſer noglega / ad vier riettelega jatum og vidurkieñum / þ MAKTEN heyrer alleina Gude til: Þeſſe Lærdom̄ giefr oſſ ſtora Huggū.

1 Fyrſt j Kroſſenum og Morgangenum / ad þeſſe Mektuge Fader kuñe vel ad

gieþa

giefa oss allt gott/og hañ kunne ad afstyra öllu Illu/og frelsa oss fra þui.

2 Þar næst i Freistingönū/þa er þetta vor Huggun/Ad Heimsins Makt + Diöfulsins er ecke rt ad reikna/hia Guds Makt. Þeirra Makt hlytur ad bradna siñ Snior fyrer Solu/og Js fyrer heitū Ellde.

3 A vorre Daudastundu/er þesse Titell oss ein Lækning/j mote vorum eigenlegum og daudlegum Veykleika/Þegar huör ke Hendur nie Fætur giöra syna skylldu/þegar Augun missa Synena/Tūgan Malled/og þa allur vor Mattur/allt vort Megn er vtgiört/Þa mun þesse Sterke + Mektuge Fader og Gud syna a oss sijna Magt/og fullkomna sinn vollduga Krapt a oss Veßölum og Veykum/og j Daudanum giefa oss Siguren og eilijft Lijf/2. Corinth. 12. Cap. Þad gietur hñ giört/ þuiad Makten heyrer hönum alleina til.

Og Dyrden er þijn.

Augustinus seiger/ ad huörs Mans Heidur eda Dyrd sie hans Loflegt og Almeñelegt Rykte. Vilie nöckur hafa Æru og Dyrd/Vegsemd/+ gott Rykte/sa hlytur ad vtuega sier þad med sijnum dyggendum/Riettuijse/Magt/Gioska + Sañleika/ og ödrum þuilijkum Dygdum og manns-

Mankostum: Med þessum hættum ver dur Gude riettelega veitt og til lögd Dyrden og Heidiuren/ alleina. Huiad huör he þur betra og loþlegra Rykte en̄ han̄? Hu ór er vÿsare en̄ han̄? Pad ma sia + merk ia aþ Sköpun allra hluta/ad hans Vÿsdomur en̄ hærre + stærre en̄ nöckur Skiepna kun̄e ad skilia. Huör er Riettuÿsare en̄ Gud? Allrei kan̄ nöckur ad seigia/ad hin̄ haþe eitt huört sin̄ Oriett giört. Huör er stadþastare og sannordare, enn hann j þui han̄ heþur loþad og tilsagt? Han̄ jdrast ecke þess sem han̄ heþur loþad/Han̄ tekur ecke aptr sijn Fyrerheit. Huör er so Mill dur og Myskunsamur sem han̄? Eingen. Huör er so Volldugur og Mektugur sem han̄/ad giöra þ han̄ vill? eingen. Chrysostomus seiger/ Su er Dyrden sön̄/sem ecke ver þo hun sie loþud/og ecke minkar þo hun sie löstud/Slyk Dyrd/slÿkur Heidur tilheyrer alleina Gude. Þar þyrer DROTTen/ er þijn Dyrden alleina. Þig Loþum og Dyrkum vier alleina/med öll um Heilögum Einglum. Vÿsdomuren/ Riettlæted/Makten/Giæskan/Sannleikuren tilheyrer þier alleina. Heimsins Dyrd/hun er lÿka sem þagurt Gras j Tune/ ostödug / visnar / og þellur nidur. Enn

þijn

þijn Dyrd Drotten er stadfǫst/ og varer ad eilijfu. DROTTen Gud Náddareñ-ar/ sem oss kallad hefur til þinnar eilijfu Dyrdar j Christo Jesu/ huórium Makt-en og Dyrden elleina tilheyrer/ giǫrdu oss Hluttakara þiñar Dyrdar/ Bredu oss til veittu oss Matt og Styrk/ sem vm lijten tijma lijdum hier j Heime Smæn + For aktan/ og allskyns Eymd og Neyd. Vi-er erum veyker og vesaler/ vier erum sem gamallt hrǫrlegt Hws/ þad sem ad falle er komed/ og styrkia verdur med Stodum og Styttum/ ef ei skal hrapa. Vier erum Skiepnur þijnar/ þu ert Skaparen vor: Vier erum þijn Bygging/ þo vier sieum hꝟ verlitleger. Gief þu þiñ Krapt þeim siñ þreytter eru/ Veit Styrk þeim vanmatt ugu/ ad þeir mætta vppstiga sem Ern-er/ med Vængiunum/ ad þeir hlaupe/ og verde ecke þreytter / ad þeir gange/ og verde ecke mødder.

## Ad Eilijfu.

Hier jatum og medkiennum vier/ ad þetta Rijked/ þesse Magten og Dyrden vors Himneska Fǫdurs vare ad Eilijfu/ + sie oendanleg. Lijka so sem Gud j siñe Essentia og Veru er Eilijfur/ Oforgeinge legur / so er og hans Rijke / Magt og Dyrd

Dyrd Eilijf og oforgeingeleg. Veralld-
ar Kongar og þeir hinu Volldugu/ hafa
hier ei languarande Samastad/ þeir hlio-
ta ad flytia sig og leysa vpp/ þegar þa
minst varer/ þegar þr sem naumast hafa
smackad Sætleika veralldlegrar Dyrdar/
þa þeir þikiast siñe Rijkistiorn og Ma-
gt hafa komed j besta lag/og eru nu ord-
ner forsokter/Vijser r vijdfræger/ þa hli-
ta þeir ad kuedia og seigia gooda Nott.
Enn vm Guds Rijke/ Magt og Dyrd er
ecke so hattad: hans Magt og Dyrd er
Eilijf og endalaus/ so sem Heilög Ritn-
ing allvijda vottar.

## Nuoria Huggun hofum vier af þessare Jatningu?

1. J fyrstu þa skal þesse-Jatning styr-
kia vora Tru/ j giegn Diöfulsins jduglegu-
re Asiundan/ huör alldrei liñer ad eydeleg-
gia/ kreinkia og forhindra Guds Rijke r
hans Magt og Dyrd vor a medal: Þegar
þær Hurraner kuña nu ad koma oss j Br-
iost/ huört Guds Rijke mune stadfast ve-
ra/ þa eigũ vier ad styrkia vora Tru med
þessu Nidurlage Drottenlegrar Bænar.
Nær vier hurum vm vorn Overdugleik
fyrer Gude/ þa skulum vier hugga oss vid
þssa

þeſſa ypparlega Fordillo / ad vor Brodr er og Lauſnare Jeſus Chriſtus / hefur bod ed od bifalad oſſ ad akalla ꝛ tilbidia vorn Fódur / huór ad hefur Rijked / Magtena og Dyrdena ad Eilijfu.
2 J Ofſokneñe / Kroſſenum og Motgangenum þa hófum vier oſeiganlega Huggun ꝛ ſtyrking af þeſſare Medkienin gu / Og ſkulum vier ſetia hana ſo ſem añad Sigurmerke / j mote Dióflenum / Heimenum / og Vallde allra Vijkinga / og þeirra Rijke / Magt og Dyrd / þeirra Ognunn Heitingum / þad vier hófum einn Fódur a Himnum / huór ed hefur eilijft Rijke / eilijfa Magt og Dyrd / Ja / hañ ſem hefur Kongaña Hiórtu ſier j Hende / og hann veiter þeim huórt hañ vill / ſo ſem Vatslækium / Proverb. 21. Cap. Hann giefur Kongónum Rijked / og hann ſetur þa af / þegar hann vill. Hann vppreiſer þañ Fatæka vr Skarnenu / og ſetur hañ a mille Hófdingiaña / Pſalm. 113. Og Daniel ſeiger ſo / 7. Cap. og talar vm þañ ſeinaſta Dag: Rijked / Valldoed / Magten vnder óllum Himnenum / ſkal giefed verda Heilógu Folke hins Hæſta / huórs Rijke ad er eilijft og óll Magt ſkal þiona ꝛ hlyda hónum.
Og nu med þui / ad vor Fader a Himnum

num er ſoddan Kongur/ þuí ſkulum vier
þa hrædaſt jardneſka Tirana ✝ Vykinga
eda þeirra Ogn og Heitingar. Þeir eru
þeſſum Himneſka Konge vndergieꝥner/
Og þeir megna ecke meira enn Gud leyꝥ⸗
er þeim.
3 J voru daglegu Framꝥerde og At⸗
hæꝥe giǿra þeſſe Ord Mǿnnum ſtort Ga⸗
gn/ Þau aminna ꝥyrſt alla Konga og Hǿꝥ
dingia og Domara a Jǿrdunne/ ad aud⸗
mykia og læcka ſig ꝥyrer þeſſum Konge
ſem þa heꝥur vpphaꝥed/ ✝ þa heꝥur ſett
til Domara embættis/✝ hupa ad Gud er
þar nalægur þa Domar ſkulu ganga/ hn
vill lata dæma riett/ og giǿra Riett huǿ⸗
ǿrium Manne/ Hn ſier þeirra Lagaatꝥerd
og Riettuyſſe/ hann veit þeirra tilgang all
an og heyrer a þeirra Doms atkuædе/ ✝
vill heimta Reikningſkap aꝥ þeim a Dǿ
ms Deiege/ aꝥ huǿriu onytiu Orde/ Ma⸗
tth. 12. Cap: auk helldur aꝥ Domum
þeirra og Vrſkurdum/ j Augſyn allra
Konga og Hǿꝥdingia/ ja allra Eingla/
og alls Himneſks Herſkara/ og j nalægd
allra Manna/ þegar ǿll Verallidleg Ryke
ſkulu haꝥa Enda/ og Chriſtur pær ſijnum
Himneſka FǿdurRyked j Hendur/ ✝ Gud
verdur allt j ǿllum. Þar ꝥyrer ættu all⸗
er

er Höfdingiar og Domendur hafa Rad Davids / þar hañ seiger / Lated vndervijsa ydur hier Domarar a Jördunñe / Dionered Drottne med Otta / + gledied ydur med Hrædslu. Kyssed Sonen (Guds) þad er / Hylled / otteft og elsked hañ / ad hañ reideft ydur ecke / so ad hier fyrerfareft ecke a Vegenum / Þuiad hans Reide mun snart kuikna. Enn Sæler eru aller þeir sem trua a hann.

Aller christner Meñ hærre Stiettar + lægre / verda med þessum Nidurlags Ord um aminter / ad veita þessum Himneska Konge alla Hlydne / ottast hañ og elska / og j hans Magtar og Maiestatis Dyrdar Auglite fram ad ganga / so sem hæfer söñum Guds Börnum / eñ ecke Syndareñ ar Prælum / a medan vier voolum hier j þessu auma vesalldar Lijfe:

4 A Daudans stundu + tijma skulum vier trua og medkieña og fullkomlega vona / ad Gud vor Himneskur Fader mune miñast a oss j sijnu eilijfu Rijke / og volldu glega frelsa oss fra Daudanum + Diöfulsins Magt + Vallde / og giefa oss Dyrdareñar Koronu / sem öss er fyrerhugud / Huör ad er eilijf og oforgeingeleg:

Lof og Dyrd sie Gude / fyrer þessa

Huggun/ + alla adra sijna Mijskunar Vel Giörnnga: Sigrareñ Sætt/ Sonur Gu|ds vor giæte/ Amen.

# Tiũde Sermon/eda Predikan
## Vm þad seinasta Ord j Fader vor.

## Amen.

Hingad til hófum vier j Drottenlegre Bæn FADER VOR talad vid Gud/ og sett fraim fyrer hañ vora Neyd + þreyngiande Naudsyniar/ Enn vier hófum ecke fenged eñ nu nóckud Suar af hónũ. Þar fyrer kiemur nu fraim j þessu seinasta Orde eitt linnlegt + æskelegt Andsuar Gu|ds/ huórt hañ giefur til vorrar Bænar/ þar hañ seiger AMEN þad er/Ja/Ja/ þad skal skie/þu skallt verda Bænheyrdur og fa þad sem þu badst vm/ So sañarlega sem eg er lifande Gud/ þa skal þ vera ja og Amen.

AMEN er eitt Ebreskt Ord/ + stend ur vyda j gamla Testamentenu/ þegar Meñ villdu aluarlega jata og sam þyckia nóckud. So sem þar stendur/ Deut. 27. Cap. þar Moyses framtelur huad epter añad

añad adſkilianlegar Bôluaner ſem banga ſkylldu yþer þeim ohlydnu Iſraels Sonum / Dar ſkipar hañ ôllu Folkenu / ad anſa til huórrar Greinar / ꝛ ſeigia / Amen. Nehem. 8. Cap. ſtendur ſo / Þegar Eſdras var komen heim fra Babylon / og tok til ad vtleggia fyrer Folkenu Guds Lôgmals Bok / og Lofade Gud / þa ſuarade allt Folked þar til Amen. Af fyrra Piſtle S. Pals til Corinth. 14. Cap: ma merkia ad j þañ tijma heſur vered til ſids j chriſtelegre Kirkiu / ſo ſem þad er eñ nu / ad enda Bæner / Sông og Predikñ og alla Guds Þionuſtugiórd med þeſſu Orde / Amen:

Þetta Ord AMEN heſur þrefallt Gagn og þrefallda Nytſeme jñe ad hallda / þegar vier daglega bidium og akollum Gud a Himnum:

1 Fyrſt latum vier j lioſe med þeſſu Orde Girnd og Oſk vors Hiarta / ſem er ad vier villdum feigenſamlega verda Bæn heyrder / og fa þad ſem vier bidium. Til Dæmis ad taka / Kaupmadr ſender Skip ſitt j Framanda land / hann vænter þeſſ daglega / ad þad mune koma heim aptur med heilu og hôlldnu / hañ bidur vm Byr og gott Vedurlag / eñ afbidur Storma ꝛ

 ſtrida

ſtirda Vedrættu. Alijka eins høfum vier nu ſent vora Bæn til Guds/ꝛ villdū beigen ad hun kiæmi aptur/ hladen med dyrmæta Vøru/allra handa Audæfa/af hu orium vier mættū fa alla Sælu ꝛ Luku til Lijfs og Sálar.
2 Med þeſſu Orde AMEN/medkiennum vier og einnen vora TRV/ad vier høfum fa Von/ꝛ þad Trauſt til Guds/vm hans Giæſku og Almætte/ad hann mune viſſulega bænheyra oſſ/ Vier oſkum ecke ad eins þeſſ ſem vier villdum oſſ ſkyllde veitaſt/ helldur ſeigum vier þad fyrer/ og vitum fullkomlega/huad framkoma ſkal epter Bænena/ þa vier ſeigium/Amen.
3 S. Hieronymus kallar þetta Ord AMEN/ Innſigle/ Sambyckt/ ſtadfaſta Lofan/ og vnderſkript Drottenlegrar Bænar: Eins alijka/ſo ſem vier af Briefe ꝛ Innſigle eins Herra ꝛ Høfdingia erum viſſ er vppa hans Vilia/ſierdeilis ef þad er med hans eigen Hende vnder ſkrifad/ Og nær einn Kongur lofar þier nøckru/ꝛ giefur þier ſijna Hønd þar vppa/ þa ertu viſſ vppa hans Lofan/ Þuiad þad er Siduane Manna a mille/ad hafa Handſøl vppa þad ſem Madur Lofar/ huar med hann giefur fra ſier ſitt Hiarta/ ſo ad Hønden

og Munnuren og Hiartad hallde eitt. So er AMEN j Fader vor / Gudz stadfóst Lofan / ⁊ so sem Handsól / med huórium hñ lofar og forpliktar sig til ad bænheyra / so sañarlega sem hañ vill vera / þad hañ er kalladur / þad er / Sannordur / Nadugur og Almættugur Gud.

Enn vppa þad / ad vær mættum fa þess meire Vnderuijsun ⁊ Huggun / ⁊ Trustyrking af þessu Orde AMEN / þa skulu hier verda framsettar / ad þessu siñe III. Spurningar.

I A huørium Grunduelle er þta Ord AMEN / bygt og grundvallad?

II Huørt ad Gud seiger alla Tijma / Ja ⁊ Amen / þegar vier lesum ⁊ bidium / Fader vor?

III Huørnen vier eigum riettelega ad lesa og bidia þessa Bæn / Fader vor?

## Fyrsta Grein / eda Spurning.

Sa sem byggia vill eitt sterkt Hws eda Forvirke / hann skal ætijd leggia goodan Grunduóll med fyrsta. So er og j sama mata þórf og Naudsyn / ad vier vitum

 Funda

Fundamenta, og þañ Grunduöll/ a huör ium þetta Amen er bygt og grundvallad/ Med þui ad allar Bæner eru stiktadar ⁊ bygdar vppa Guds AMEN/ þad er/ vppa hans vissa ⁊ fullkomlega Bænheyrslu: Eñ þesse Grunduöllur vm huörn vier tölum/ og a huörium vor Bænheyrsla er bygd/ hañ hefr fierdeilis V. Stølur ed ur sterkar Stoder/ þær ed alldrei bila eda bregdast:

1 Fyrst er Guds Almætte/ Þuiad hañ alleina kañ ad hialpa eñ eingen añar. Hñ er alleina j öllum Stödum nalægur/ hañ heyrer vora Anduarpan/ hñ sier vora Neyd. Þar fyrer kañ hañ vel ad enda og vt rietta sitt Amen.

2. Þar næst er Guds Fyrerheit/ a þeim eru vorar Bæner grundualladar/ og vid þau saumu Fyrerheit eigum vier stadfastlega ad hallda oss med TRVNNE/ þeg ar vier lesum Amen/ Þuiad sa sem oss hefur lofad ad bænheyra/ hann sujkur oss ecke/ nie a tælar dregur. Hañ hefur sagt/ Akalla þu mig j þiñe Neyd/ jeg vil hialpa þier/ ⁊ þu skallt prijsa mig/ Psa. 50.

3 J þridia mata höfum vier nogleg Eptérdæme j Heilagre Ritningu/ huar vpp-

vppa vorar Bæner eru og so grunduallad ar: David Kongur talar vm sig/Psalm. 34. Þesse Fatæke kallade/ * Drotten bæn heyrde hañ/ og hialpade hönum wr allre hans Neyd/ So vill hañ * hialpa þier. Jesus Syrach vÿsar oss ad Epterdæmum Þrra Gömlu/ * vill ad vier skulum merk ia þau' Huör hefur nöckurn tÿma (seig er hañ) vered yfergiefen/ sem lifad hefur j Guds Otta/ huör var nöckurn tÿma fy rerliten af hönum/ sem hñ akallade? Þui ad Drotten er Myskunsamur / og fyrergie fur Syndernar/ og hialpar j Neydenne: Þar fyrer meigum vier vel seigia mz Da uid/ Drotten a þig vonudu vorer Forfed ur/ og þu hialpader þeim/ þeir köllud u a þig og vrdu frelsader/ þeir vonudu a þig og vrdu ecke til skamar: Med sodd an Epterdæmum skulum vier styrkia vo ra Tru/ ad Gud mune sañarlega lata sitt Amen koma fram vid oss/ so sñ vid þa/ nær sem vier Bidium aluarlega og af Hiarta.

4 J fiorda mata er Guds Dyrd eirn stadfastur Grunduöllur/ a huörium vorar Bæner Byggdar eru: Þuiad þo ecke være nöckur Hlutur añar huar fyrer Gud villde ecke seigia Amen til vorra Bæna/ þa mñ

de hann þo visselega bænheyra oss vegna Dyrdar sijns Heilaga Nafns/ huöria Dyrd hañ vill ecke j nöckurn handa mata lata skierda/ eda ad hū skule til linkū lijda. Þar fyrer seiger Christi j Gudspiallenu/ Quad hellst þier bidied j mijnu Nafne/ þad vil eg giora/ So ad Faderen fae Dyrd j Synenum. Og David seiger opt sinis j sijnum Psalmum/ Drotten Bænheyr mig fyrer saker þijns Heilaga Nafns/ Þad er/ vegna þiñar Dyrdar.

5. J sijdasta mata/ þa eru vorar Bæner bygdar vppa Herrans Christi eilijfan Kienemanskap. Hñs Forþienan er oseiganleg + Endalaus/ hans Aarnan + Medalganga hia Födurnum er æfenleg/ þar fyrer verdum vier æfenlega bænheyrder/ Þuiad hañ er eñ nu j Dag og ad Eilijfu vor Kongur og Kieñemadur/ og Medalgangare a mille sijns Elskulega Himneska Födurs og vor. Þetta er miög hugg unarsamlegt. Huör hañ j þessum Heime hefur eirn goodan medalgöngu Mañ hia sijnum Herra og Höfdingia/ sa er j goodre von/ ad hann fae sitt Erinde. Myklu helldur + framar meigum vier vera j visse Von þar vm/ ad vier munum verda

bæn

bænheyrder af Gude fyrer Jesu saker/sin sialfur hefur sagt/Ja ꝛ Amen til þessar ar Bænar/og med sijnum Eide hefur le ; ad ad hiálpa oss. Oh huad sæler erum vier/huörra vegna Gud suer soddan Eid/ Eñ huad vesaler og aumer erum vier/ef vier truum ecke Gude/þa hañ suer ꝛ legg ur Eid ofan a sijn Fyrerheit. Huiad Himen og Jörd skulu forganga/eñ hans Ord forganga alldrei. Þar fyrer ber önguum Mañe ad efa Guds Nad og Giæsku og hans Födurleg Fyrerheit/sem riettteliga ꝛ af Hiarta les Drottenlega Bæn/og leggur þar til ad sijdustu Amen·

## Añur Grein / eda Spurning.

Eñ þo Drottenleg Bæn sie bygd a so sterkum Grundvelle sem nu var sagt/Þa skiedur þad þo opt og tijdum/ ad Gud seiger ecke strax Amen til vorrar Bænar/ þad er/ Hañ veiter ꝛ giefur ecke jafnsnart þad vier bidium/Hañ lætur opt sijna Hialp dragast vndan. Huörnen kiemur þad til ? Vier skulum vita/ad Gud bænheyrer oss alla tijma/þegar vier riettelega og af Hiarta bidium Fader vor/enn þo ecke alltijd epter vorre Villd/ Huiad ef hann

Bæi.

bænheyrer oss j huört sinn epter vorre Vil-
ld/ þa er þad strax j mote vorre Bæn/ j
huörre vier höfum ædur fyrre bedeð / ad
hans Vilie skyllde verda/ hier a Jördunne/
enn ecke vor Vilie.

Enn þar Gud dregur vndan sijna Hi-
alp/ og bænheyrer oss ecke strax epter vor-
um Vilia/ vm stundlega og forgiengelega
Hlute/ þad skiedur fyrer þriggia merkele-
gra Greina saker/ Sem er vegna Guds/
Vegna sialfra vor/ + Vegna Naunganns.

1 Fyrst lærum vier af þessum Vndan-
drætte/ad þeckia Gud/ hans Vijsdom og
Nædargiæsku: Sinn Vijsdom lætur hann
þar med j liose/ ad hann veit myklu bet-
ur enn vier/ huad oss er gagnlegt/og nær
ed Tijmenn er til ad hialpa/ Þar fyrer kall-
ast hann af David Konge/ Psalm. 9. Ad-
iutor in Oportunitate, Þad er/Hialpare
Frelsare/ þegar a liggur/j hagkuæmelegū
Tijma. Sijna Nædargiæsku lætur Gud
sia og merkia j þui/ ad hann myskunnsam-
lega verndar oss og vardueiter / opt og o-
siallþan/j marguijslegum Haskasemdum/
Sottum + Siukdomum/ so vier meigum
vel seigia med hinum heilaga Jeremia/ j
hans Harmagratr/3. Cap. Myskunn Guds
er þad/ad vier erum ecke aller saman eyde

lagder

lagder. Hans Myskunsemd þeþur öngan Enda/helldur er hun huörn Morgun þesk og ny:

2 Pad er og lijka sialþum oss til Gagnis og gooda/ þo Gud Bænheyre oss ecke jaþnsnart/j huört sinn þegar vier Bidium hann/ Puiad a medan Gud seinkar sinne Hialp/þa lærum vier ad þeckia sialþa oss vora Synd og Sekt/og þorþient Straþþ Syndanna/og nidur ad kieþia þann gamla Adam: Par aþ og eirnen eigum vier ad læra/ad jdka/reyna/og styrkia vora Tru Bænaakalled/Volenmædena/þegar Guds Hialp og Hiastod dregst vndan/huad ecke skiede/eþ Gud Bænheyrde oss jaþnskiott sinn vier Bidium hann/ Par þyrer/lijkaso sem Huerþesteinen huesser Jarned/so er Kross + Motgangur sa Huerþestein sem Bænena bryner og huesser. Aþ þessum Vndandrætte/þaum vier og eirnen pad Gagn/ad þeckia + þiggia þui bett Gudlega Hialp sem hun kiemur seinna/ + vita ad Hialpen kome aþ Gude einum/enn aþ öngum ödrum/med þui ad hun kiemur seint/+ þegar öll Hielpar von/annarstadar ad/er vte/ So lesum vier Danielis j.13.+ 14.Cap: Pa ed Cyrus Persa Kongur/vard ad lata kasta Daniel j Leona Gröþena/þa er skri

þad

pad/ad hann hafe komed a siöunda Deige ad Leona Gröfeñe/til ad græta og syrgia Daniel/Eñ sem hann sa ad Daniel sat heill og oskiertur a mille Leonanna / þa kallade hann vpp med hærre Röddu/ og sagde/Drottenn/þu Danielis Gud/þu ert einn mÿkell Gud/og eingen er annar Gud eñ þu. Þesse Vndandrattur Guds kieñer oss/ad læta Guds Velgiörninga og hans Hiastod og Hialp vera oss þackuæmelegre fyrer pad/ ad hun kiemur seint/ so sem S. Bernhardus seiger/ Þekar Gud giefur seirna Gafur sÿnar/ eda lætur Hialp sÿna seiña fram koma eñ vier villdum/þa giörer hañ pad sÿnum Gafum til Heidurs og Hrosunar/so þær sie sÿdur ovirdtar/ huad vissulega munde verda/ ef vier feingium þær strax/j huört siñ þegar vier Bidium: Pad er Plagsidur/ad hallda mÿ ked af þui sem Madur dyrt kauper. Og ein good Moder giefur ecke Börnum sÿn Mat/ fyrr enn þau eru vel hungrud/ so þau skule ecke fara jlla med Matin eda spilla honum: J sama mæta fer og Gud ad vid oss/hañ lætur ecke sÿna Hialp fram koma/fyrr eñ oss aliggur/ so ad vier höllдum þui meira af heñe/sem vier kaupum hana dyrara/og faum hana seinna.

Aññ=

3 Aňara Maňa vegna ſkiedur þad ⁊ ſo/opt og tijdum/ad Gud dregur vndan ad veita þad vier bidium/So þeir ſkule hafa Epterdæme/ad læta ecke ſtrax af Bæneñe/helldur bidia/knyia a/og kalla/ allt þangad til ad þeir verda bænheyrder vm ſijder/So ſem oſſ kient verdur j þeirre agiætu Epterlijkingu/ Luc. 18. Cap: Vm þa Fatæku Eckiuna ſem hafde riett Mælefne/ og þann Ranglæta Domara/ huórſu hun vard vm ſijder bænheyrd:

## Þridia Grein/ eda Spurning.

Med þui ad vier hófum nu hid einfalldlegaſta vtlagt Drottenlega Bæn/ept er þeirre Nad og Gafu ſem Gud giefed hefur/Þa vilium vier eñ tala nóckud flei ra vm heñar Gagn og Nytſeme. Þuiad eñ þo þeſſe Bæn ſie af Chriſto ſamſett ⁊ dicktud/til þeſſ/ad vier med heñe ſkulum akalla og tilbidia Gud/med þeim Ordū ſem hun hefur iñe ad hallda/þa meigum vier þo hafa af henne ferfallt Gagn:

1 Fyrſt j vorum Hiórtum ⁊ Sammiſkum/þad ſkiedur/þegar vier hófum þiſſa Bæn vel Hiartgróna/og hófum hana fyrer Antidotum, þad er/Lækning ⁊ Styr

king

king j mote Syndeñe/ Guds Reide ⁊ And skotanum/ þegar Dióþullen slær vorar Samulskur þar med og plægar m̃ sꝩ ard og þiólda Synda vorra / þa giórer þesse Bæn þig þullvissan vppa Guds Nad og Myskun: So ad Gud hañ seiger þa vid þig / eins og hañ sagde til hins Haluisna j Gudspiallenu/ Matth: 9. Cap. Vertu Hughraustur Sonur/ þijnar Synder eru þier þyrergieþnar/ Þa hlytur Synden ⁊ Dióþullen og Guds Reide ad vijkia.

2 J vorn daglegu Samtale vid Gud ⁊ Bænaakalle/ þa skulum vier læta þssa Bæn vera eina vissa Suplicatiu/ ⁊ rietta Reglu/ og sannan Mælebrad/ j allskyns Neyd ⁊ Motgange/ til ad bidia Gud vm allt Gott/ og so lyka ad bidia hann allt Jllt j þra oss ad taka / Med þessum eda þuilijkum Ordum sem nu epter þylgia/ bæde med Hiarta ⁊ Munne/ so seigiande.

Suma/ Jnnehalld/ Mergur og Meining Drottenlegrar Bænar/ sem Dagslega ætte lesen ad verda.

Eilijþur Gud og Fader/ þu sem ert a Himnum/ Eilijþur ⁊ Almættugr Gud. Þu heþur aþ sierlegre og oseiganlegre

Nad

Holld z Blod/z lata ecke Holldsins Vi-
lld z Girnder hafa sin Framgang/Styr
og stiorna þu oss med Rad þijns Helga
Anda/og lat vor Hiortu vera þitt Hws
þitt Herberge og Mustere/ þar þu villt
bwa og byggia. Kom snart og gior en-
da a þessare aumre dygdarlausre Verolld
du/so vier mættum endelega verda leyster
z frelsader fra Yferuallde Myrkrana/
og lifa hia þier eilijflega. Veittu oss þ/
ad vier daglega mættum vera vidbwner/
z til reidu/ad ganga vt j mote vorum El-
skulega Brwdguma/ med logande Vid-
smiors Lompum z sanre Tru.

III Og med þui ad Anden er reidubw
en/en Hollded er veykt og tregt til ad vt-
rietta og giora þetta sem nu hofum vier
girnst z beded/Þa bidium vier þig fram
uegis/ Himneske Fader/ Briot þu vorn
Vilia/ og lat han ad onguo verda/ong
uan framgāg hafa/so ad þin Vilie mei
ge skie. Þin Vilie er/ad sa Syndugr sku
le snua sier fra Syndum og Ranglæte/z
lifa. Þin Vilie er/ad huor sem sier Son

 ui og

en z truer a hñ/sa skule haþa eiuist Lijf z þu munt oppoekia hañ a þeim sijdasta Deige. Þiñ Vilie er ad vier skulum vera Heilager/so sem þu ert Heilagur. Vier hoþum allt til þessa giort Heimsins/ Holldsins og Dioþulsins Vilia/meir og þramar eñ þiñ Vilia/sem Gud betre/og nade oss auma Syndara. Allar Skiepnur a Himnum/og a Jørduñe og j Siønum/eru þier hlydnar/og giøra þiñ Vilia/nema vier. Vier alleinasta erum ohlyduger og þuerbrotner/Vier medtøkum z þiggium daglega Dags aþ þier meire z þleire Velgiørninga/enn nockrar adrar Skiepnur a Himnum ellegar a Jørdunne/ samt erum vier þier ohlyduger og opacklæter. Gieþ þu þar þyrer þiñ Helga Anda j vor Hiørtu/ so ad vier epter þeñan Dag mættum vera þier hlyduger og alla tijma vita/reyna/z giøra z þram kuæma þinn Goodan og Giedþelldan og Algiørdan Vilia.

IIII Gieþ oss j Dag vort daglegt Braud. Eckert hoþum vier aþ oss sialþum

til

ftil/og einskis kunum vier ad orka eda ap-
la med vorum Styrk/Atuegum eda At-
burdum. Af þier hliotum vier Daglega
ad fa og þiggia vora Atuinnu. Vier erū
þijner Giester/vier etum og dreckum dag
lega af þijnu Borde. Daglega þurfum
vier vid þinar Hialpar. Þar rigner ecke
Himnabraude/nu so sem fyrr meir z for
dum skiede/ Maturen gengur vpp/z Fo
ten slitna/ þau kuna ecke ad hallda j 40
aar/ so sem skiede Sonu Israel j Eyde-
morkenē. Þar fyrer bidiū vier þig/Hia
lpa þu oss daglega vm allt þad sem vier
hofum þorf til Lijkamans Vpphelldis.
Gief oss fyrst gooda og Gudhrædda Yf
eruallds men/Hialpa þu ollum þeim sem
sier og sijnum eiga Vpphellde ad veita/
med Buskaparlage/eda med Vinnulage z
Handbiorg/eda j huorre ærlegre Stiett/
Kalle z Embætte sem huor þionar. Gi
ef þu Frid og Samþycke allra Manna
medal. Gief þu oss Gras og Grooda á
Jordena/ og Fisk j Sioen/z hagstæda z
gooda Vedrattu. Lattu oss ecke verda

oppaſtæka/ſo ad vier neydunſt ei til ad ſte la/eda med Suikum z Prettum ad leita vorrar Atuikiu. Gief oſſ ecke helldr Aud nie Rÿkdom/ſo vier verdum ecke agiarner og drambſamer þar aþ/ Gief oſſ vora Atuiñu/og ſkamtadan Verd/a medan vi er erum a þeſſarre vorre vegþerdar Reiſu hier j Heime. Bleza þu oſſ og allt vort Erþide/og læt þÿna Blezan vera j vorum Matarhwſum og Hÿbilum/ og ollu þui ſem oſſ tilheyrer. Varduceittu alla vegþarande Meñ/ og alla þa ſem eru a riettþerdugre Reiſu/ og j ſÿnum Atuegum til Lands og Sioar. Vertu Fader all ra þaſtækra Ecknа/z Faudurlauſra Bar a/og allra añarra aumra og Voladra. Veit Hialp og Huggun ollum þeim ſem eru veyker z ſiuker/og nockurn Kroſſ eda Motgang lÿda. Varduceit allar oliettar Qvandikuiñur/og oll ſma Born og Vng menne/vnder þiñe Nædarverndan/z læt þau vaxa/ og med Alldre þroaſt j allre Skynſeme/og læra ad þeckia þig og ottaſt og elſka þig.

Fader

V Fader Himneskur/vier jatu og med kieñum oss ad vera overduga z omaklega allra þeirra Velgiørninga/ vm huøria vier so diarflega bidium þig/ fyrer sokñ þess ad vier so margfalldlega syndgum a mote þier/og styggium þitt Guddomlega Maiestatis Vellde. Eñ þu elskulege Fader/Minstu a þad/ad þiñ Elskulegur Sonur hefur ecke alleinasta geinged j borgan fyrer oss/helldur hefur hañ fullkomlega bitalad og borgad fyrer oss/Fyrergief vss vorar fwlar og slæmar Synder. Vier høfum syndgast/vier høfū jlla og Ogudlega breytt/Vorar Synder eru fleire eñ Stiørnur Himensins/eda Sandur a Sioar botne/Ecke erum vier verduger/ad þu taker oss til Nadar/eda hallder oss fyrer þijn Børn. Eñ Fader/Lijttu a þiñ Elskulega Son vorn Lausnara og Frelsara/og fyrergief oss allar vorar Synder/ vegna hans Pijnu og Dauda. O Jesu/giørdu oss Rietlæta/gief oss þitt Riettlæte/og þitt Sakleyse/Skyl þu þar med og hyl vorar Synder og Misgiørd-

er/ Gleym þu vngdoms Syndum z bern
sku Þørum vorum/ Fyrergieþ oss bæde
vppruna Syndena og allar giøranlegar
Synder/bæde Daudlegar og Nædarleg
ar/ smar og storar/vitanlegar og ovitan
legar. Sock þu þeim nidur j þitt Blez-
ada Blod/sem ad er Sior og Naþ allrar
Nædar og Mysfunar/Burt tak þu bæ-
de Synd og Sekt/Straþþ og Reþsing/
og gack ecke j Dom og Riett vid þiñ au-
ma Þræl/ Þui þad er onguum møgule-
gt ad standast/ Nia þier er Naden og
Mysfunen/og Endurlausnen. Frelsa þu
Jsrael aþ øllum sinum Syndum. Bier
Loþum og tilseigium þier/ad vier vilium
giarna þijnu Fødurlegu Mysfunar Ep
terdæme þylgia/og þyrergieþa aþ Hiar-
ta øllum þeim sem oss haþa stygt z mod
gad/ Ja/vier skulum helldur lijda Oriett
eñ giøra ødrum/so þramt sẽ vier vilium
nockurn tijma þa og haþa Syndañа Fy
rergieþning hia þier. Himneske Fader/
þu ert Kiærleikureñ/Huernen meigū vi-
er þa vera þijn Born/ og riettelega bid-
ta þig

ſa þig vm Fyrergiefning/ eſ ad vier erum ſialſer vpp bolgner z blaſner med Natur z Reide/ z vilium ecke fyrergiefa odrū z

VI Nu þo ad vier hofum odlaſt af þier Syndanna fyrergiefning/ þa erum vier þo ecke jafnſnart konner j Himerijke/ Helldur ſkrijdum vier aumar daudlegar Mañeſkiur hier fram̃ a Jorduñe/ Vier erum veſaler og veyker/ Vier hroſum z dettum og follum audueɫɫdlega/ Ja/ þad er oſſ ſtundum gott og gagnlegt/ þo vier verdum reynder z freiſtader/ vppa þad ad vort Holld mætte ſpekiaſt og ſtillaſt/ z vera ecke ſialfrætt og otamed. Þar fyrer bidium vier þig framueigis/ Himneſkur Fader/ Tak þu oſſ ad þier/ ſtattu vorra vegna j mote voru eigenlegu Hollde/ Heimenum z Dioflenum. Gief þu oſſ Styrk og Stodugleik/ Vopn og Veriur/ ſo ad vier mættum ſigra og yferuinna þeſſa vora Ovine. Ecke oſkum vier ad vera an allra Freiſtinga/ ecke girnuſt vier Jdiuleyſe/ Omenſku/ eda holldlega Kyrſetu z Nadir/ Helldur bidium vier alleinaſta/ ad

þu later oss ecke palla z til grunds gan-
ga j Freistingonum. Drotten/gieþ ad vi
er þreistum þijn ecke/Veit Hialp z Hug
gun ollum þeim sem þreistast/ j huorn
mata sem þad er/so þeir mætte Sigren-
um hallda.

VII Frelsa oss þra Illu/Fra Dioþle
num sm er sa allra argaste z veste Lyga-
re og Mordinge þegar j Vpphaþe/ þra
huors Vallde vier erum leyster mz þijns
Sonar Blode/O Himneskur Fader/lat
þu oss ecke koma aptr j Vlþsins Kiapt.
Frelsa þu oss þra Illu/þra Syndeñe/so
vier þollum ecke j Storglæpe z daudleg-
ar Synder. Frelsa oss þra Syndareñar
Straþþe synelegu z osynelegu/ þra þiñe
Reide og Reþsingum/ þra Druilnan og
Eþaseme/þra eilijþre Fyrerdæmningu z
Boluan/Lina þu Sottum z Siukdomū
Hungre og Hallære/Pestilentiu z ollum
Lijkamlegum Landplagū/ Vardueit oss
þyrer bradum og ovijsum Dauda. Allt
þetta bidium vier þig Himneskur Fader/
ad veita oss alla tijma/ einkum a vorre
Dauda

Daudastundu. Nu þo ad oss liggie stor
legá a øllu þessu/vegna vorrar Sæluhi
alpar/ þa bidium vier og þar med ad þu
bænheyrer oss vegna þÿns Heilaga Nafz
ns/þinar Heiløgu Dyrdar/ Med þui ad
Rÿked er þitt/og Mætturenn/ꝛ Dyrden/
ad Eilÿfu/Þar fyrer hæfer ecke ad þÿn
Dyrd fae nockra Minkū vegna vors o-
verdugleika/eda Illsku/ Ja ad vÿssu/ þu
ert Mættugur Rÿkur og Vollðugur til
ad bænheyra oss / Lat þu þar fyrer/
Himneskur Fader/ vora Bæn verda Ja
ꝛ Amen/til Dyrdar þÿnu Heilaga Nafz
ne/ Amen.

3 J þridia máta/þa skal þesse Drott
enleg Bæn vera oss so sem Profsteinn/ med
huórium vier skulum reyna og profa all-
ar adrar Bæner/med huórium hiner ꝛ ad
rer akalla og Bidia Gud. Þesse Bæn hun
skilur oss Christna / fra óllum þeim sem
ranglega Bidia og akalla Gud/ 1: Fra
óllum Heidingium/ꝛ Skurgudadyrkórum/
sem Skiepnurnar tilBidia/Sol eda Tungl
eda Stiórnur/eda huad annad vera kan/
sem þeir vpp setia j Skaparans stad. 2.
Fra [illegible]kium og Tarkórum/ huórier ad
Seiga ...

feigiast akalla Gud Himens og Jardar Skapara/ Enn med þui ad þeir tilbidia ecke þañ Gud sem er Jesu Christi Fader/ Þar fyrer akalla þeir ecke sannan Gud.
3. Framveigis skilur þesse Bæn oss fra þeim forhertu og blindu Gydingum/sem ecke vilia medkieña þriar Persónur Guddomsins/so sem vier. Þuiad j Bæn þessare akóllum vier alla Heilaga Þrenning. Þuiad þo hier sie ecke nefndur nema Fad eren/ þa legst þetta Ord til bæde Synenum og Heilógum Anda/af huórium þremur Guddomsins Persónum/vier faum + ódlust alla þa Velgiórninga/sem vier vm bidium j þessare Drottenlegre Bæn/Fad er vor/ 4. Vier verdum + so med þessare Bæn skilder fra Papistum/ þeir ed akalla framlidna Menn/Mariu/Petur/ Olaf Kong og adra/huórier ecke eru nefnder j þessare Bæn. Þeir kieña oss ad vier skulum vera efasamer vm vora Saluhialp/huad þeir meiga vel sialfer giora/ef þeir so vilia/ Enn vier erum fullvisser vpp vora Saluhialp / af þessare Bæn/ Þuiad Gud er vor Himneskur Fad er/ + hañ hefur skipad + kient oss ad bidia/vm Syndanna Fyrergiefning/ og sagt AMEN þar til. 5. Framveigis skilur

þesse

þesse Bæn oss fra þeim Stoicis/ og ǒdrū
Blindum Villumǒnnum / sem trudu a For=
lǒg/ so sem være Gud vid þau Bunden/ +
þau riede ǒllum Hlutum / huad hellst ad
skiedur j Heimenum / Enn j þessare Bæn
tilBidium vier þañ Gud sem rijker + drott
nar yfer Himnenum/ + Jǒrduñe/ + ǒllum
Dióplum/ Mǒñum og Forlǒgum/ og ǒllu
rædur/ lijka sem eitt Hwsfader j sijnu Hw
se. 6: Ad sijdǒstu/ giórer þesse Bæn oss
fraskilda/ fra ǒllum Ogudlegum Mañe
eskium / einkum þeim sem lifa j Heipt og
Hatre til sijns Naunga / og alleina Bidia
fyrer sialfum sier/ + vña ecke ǒdrum Gud=
Nadar/ þm + siñ sialldā Bidia fyrer sier/
eda alldrei / eda Bæde jlla og orækelega.
4 J voru daglegu Lijfferne og Fram
ferde/ þa skal þesse Drottens Bæn vera
oss Speigell + Sionargler / j hvǒriu vier
eigum ad skoda oss/ og so ein Regla ept=
er hvǒrre vier eigum ad lifa. Pad er/ Ad
vier alla tijma Breytum epter Guds vors
Himneska Fǒdurs Dygdum + Velgiǒrnin=
gum/ þ frekasta sem hañ giefur oss Nad
til/ Elskum Naunga vora / Bænheyrum
þa/ so sem oss er mǒgulegt/ Og lifum so
sem Guds Bǒrnum hæfer og heyrer: Og
siaum oss vel vm kring / ad vier ecke med
Esan

Esau selium vorn Frumburdar riett fyrer Magafylle + fanytar Vellystingar þssa Heims/Helldur ad vier med Jacob girnunst þa riettu Sonarleifd j Himnaña Ryke/og seigium med David Konge/Psam. 141. Minn Partur er j Lande lifande Manna. Og huxum vm þad/ ad lyka so sem þad somer ecke einũ Kongs syne vel/ ad geyma Sviñ/eda ad ganga epter Ploge/So hæfer og ecke vel/ad Guds Börn sem eru Dætur og Syner hins hæsta Kongs a Himnum/saurge sig med Löstum og Lytum/og giöre Sköm̃ vppa siñ Heidur/ og Himneskan Sooma.

Og so siñ vier' höfum nu heyrt Drottenlega Bæn/ + af Guds Orde lært riettelega ad Bidia/so vilium vier nu aller huör med ödrum Bidia / og seigia med Hiarta og Munne.

Eilyfe / Almattuge goode Gud/og Himneske Fader: Þier sie Lof og Þackar giörd ad eilyfu/fyrer þeñan heilsusamlega Lærdom/vm Bænena/huörn þu hefur oss kient og openberad/ j þynum elskulega Syne/þier til Dyrdar/og oss til Velferdar fyrer Lyf og Sal: Vier Bidium þig FADER/fyrer Jesum Christum þiñ einka Son vorn Drotten/ad þu giefer oss

Anda